# PSALTERIUM PASSIONALE
Edur
# Pijslar-
# PSALTARE
Ut Af
Piinu og Dauda DRottens Vors
JEsu Christi,
Med Lærdooms-fullre Textans
UTSKIJRINGU,
Agiætlega uppsettur,
Af
Þeim Heidurs Verda og Andriika
KJENNEMANNE.
# Sal. S. Hall-
GRJJME PETURS-SYNE,
Fordum Sooknar-Herra ad Saur-Bæ
a Hvalfiardar Strønd.
EDITIO XIV.
Selst Almennt Innbunden 9. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hiallta-Dal, Af
Halldore Erikssyne, Anno MDCCLIV.

Dedicatio Authoris.

Erusamre, Gudhræddre og Dygdum Prijddre Heidurs Kvinu,

# Helgu Arna

DOOTTUR,

Þess Heidurlega og Vel-lærda Kieñemañs Sr. ÞOORDAR JONS-SONar, Sooknar-Prests ad Hytar-Dal, Elskulegre EKTA KVINNU.

Asamt og

Elskulegre, Gudhræddre og Dygdasamre Heidurs Kvinu,

# Christinu

JONS DOOTTUR,

Þess Erusama og Vel-Viisa Mañs, SIGURDAR JONS SONAR, Syslu-Mañs i Þveraar Þijnge, Elskulegre EKTA HWSTRU,

Oska eg Naadar, Fridar og Farsælldar fyrer þañ Krossfesta JESUM, Vorn og alls Heimsins Frelsara.

Sar

SA H. Guds Madur Moyses greiner liooslega og hverium Tijma fyrst hafe talad og Predikad veried um Pijnu og Dauda vors HErra JEsu Christi, þar han greinelega framsetur þad Fyrsta Fyrerheit um Kvinnunar Sæde, sem sundurmeria skylldi Hôggormsins Hôfud, og lijda af hônum þad ad verda bitin i Hælen, Gen. 3. Hvad aller Christnenar Lærefedur, samhyckelega wtleggia uppa JEsu Christi Pijnu og Dauda, Og er Eptertakanlegt, hversu Moyses allra Atvika so Greinilega gietur i þessu Efni. 1. Hver þetta hafi Talad. 2. Vid hvern Talad var. 3. Hvadnær þad var Talad. 4. Hvar þetta var Talad. Pad særer allt Lærdoom med sier. (1) Pessa Spaadooms Predikun um Pijnuna Christi edur Hæl-Bitid sem Kvinnu Sæded skyllde lijda, giørde sialfur Almattugur Gud, DRotten Himens og Jardar Skapare, Ja, sw H. og Hatignada Guddoomsins Prening. Oh! þad mun viist vera merkilegt Efni, sem so Dijrdlegur, Volldugur og Vijs HErra virdist sialfur um ad tala. Pad heiter riettilega so sem Esajas Spamadur segir: Heyre þier Himnar, og Jord hlusta til med Eyrunum, þvi DRotten han talar. Dijrmæt er þess vegna og Daadsamleg Pijnan og Dauden DRottens vors JEsu Christi. Verdugt er þad ad vier leggium og liaaum bædi Heyrn og Hiarta, vid allt hvad fyrer oss verdur um han sagt og sswungid. Himnarner, þad er øll til Himna stundande Hiørtu, meiga heyra þar Hiartans Glediligar Hugganer. Jorden, þad er øll Jardlega sinnud Hugskot, meiga þar hlusta til adsikilianlegra Aminninga, so þau betrist. Lattu þier þar fyrer Christin Saala kiært vera han Textan ad ydka og Elska, sem sialfur DRotten virdtest ad wtleggia. (2) DRotten taladi og Predikadi þetta fyrer Adam og Evu, epter þad þau voru i Syndena fallin og høfdu yfer sig leidt Guds Reidi og eilijfa Fordæmingu. Oh! Hvad Hiartanlega hrygg og Sorgbitin munu þau þa verid hafa, þvi þau sivodu þar fyrer

Mottni, krofd eg kollud til Reikningskapar fyrer sitt Brot, og mættu kvijda fyrer þeim stræangasta Straffs og Refsingar Urskurdi, Bædi fyrer sig og alla sijna Eptirkomendur, þeim so Hiartañlega hrelldum Mañeskium til Huggunar, taladi Drottenn þesse Ord og sagdi: Ad Kviñuñar Sæđi, skylldi sundurmeria Hoggormsins Hofud, og skylldi verda af honum bitid i Hæliñ. Pad er, Eg vil lata þañ Mañ i Heimiñ fædast af eirnre Kviñu, an Kallmañs Tilverknadar, sem Hoggormsins Hofud skal sundurmeria, Pad er Diofulsins Verk skal nidurbriota, Syndina afmæ, Daudanum Bañi, og Helviti ein Drep-Sott vera, þañ Ofluga sigra, hañs Herklædi fra honum taka, og hañs Herfængi sundurskipta, Eñ þad skal þo kosta hañ eitt sart Hæl-Bit, Pad er Pijnu og Dauda.

Af þessu sier þu nu Christiñ Sala, þad þeim Sorgbitnu Syndurum sem Gud hafa styggt, Og eru þvi hræddir og skialfandi i Hiarta sijnu og Samvitsku fyrer Guds stræanga Riettlæti, þeim (segi eg) til Hiartans Huggunar og Hugsvolunat, Er JEsu Christi Pijna og Daudi skied. Gledileg er þess vegna Pijnañ JEsu Christi og allt hvad uñ hana er sagt og sungid, ollum ængrædum ydrande Syndurum. Merk þad vel, Christiñ Sala: Og fyrst sa Guddoomlegi Vijsdoomuriñ villdi eckert ædra vita vora Fyrstu Forelldra i þeirra hædstu Sorg med ad hugga, þa lattu þier þar med nægia, og gyrnstu ecki añarstadar Huggunar ad leita. (3) A Ondverduñ Alldri Verallldareñar, voru þesse Ord toslud, Pad ma reiknast og kallast Morgun Verallldareñar Alldurs-Dags. JEsu Christi Pijna og Daudi, er sw þesta Morgun Lectia eda Morgun Panki Guds Barna. Eg hefi lætid mier segia, Ad i Pavadoominum hier i Landi Fordum, hafi Meñ fyrst a Morgna geingid til H. Maña Bijlæta, og strokid Hondum fyrst uñ þau, og sijdañ uñ Augu sijn, og þad skylldi heita heilnæmt. O! þu Guds Barn, gack þu hvern Morgun med Hiarta

þijnn undir JEſu Chriſti Kroſs, og ſtriwk þu med St. Thoma Trwar Hendi þini uñ JEſu Piſslar Saar, og ſeigdu: DRottiñ miñ og Gud miñ, Joh. 20. Miykiu Hiarta mitt med Saarum þijnum, giørdu Hiarta mitt og Hugſkot druckid og lyſingt med þijnu Bloodi, ſo ad hvert ſkellſt ſem eg ſnij mier i Dag, þa haſi eg þig mier fyrer Sioonum Pijndañ og Kroſsfeſtañ, Og allt hvad eg lijt, ſijniſt mier rioodrad i þijnu Bloodi. Slijk Morgun Peynking mun bædi holl og heilnæm. Hier verdur og gietid, ad DRottiñ haſi talad þeſſum Ordum þa Daguriñ took til ad koolna. JEſu Chriſti Pijna er hiu kroptugaſta Hugar-Hre ſſing og Hiarta-Glede þa Mootlætis Kiælañ vill ad blaa ſa, og Samvitſkañ tekur ad ſtyrdna; Pvi ſagdi hiñ H. Auguſtinus: Eckert er ſo kroptugt ad lækna med Saariñ Samvitſkuñar ſem ydugleg Uñþeynking JEſu Chriſti Pijnu. Hvad ſæt Hugſvolun JEſu Chriſti Pijna og Daudi muni vera Saaluñe, þa Daudiñ kiæler Lijkamañ, munu og meiga øll Guds Børn ſier til Peckingar taka. (4) J Paradijſar Aldingardi taladi DRottiñ uñ þetta Eſni, Pviad i Aldingarde Guds Chriſtni aa HErrans JEſu Chriſti Pijna ad prediſkaſt, og hañs Daudi ad kuñgiøraſt þaaugad til hañ kiemur. Jaa, Pijnu Hiſtoriañ JEſu Chriſti er eirn lyſtilegur Saalna Aldingardur, Par maa fiña hin fegurſtu Bloomſtur þeirra ſætuſtu Epterdæma, ſem JEſus gaf af ſier i allri ſiñi Kvøl: Par maa og fiña hiu allra Lyſtileguſtu Lærdooms og kroptugra Amiñinga Bloomſtur, og hinar allra ſætuſtu og heilnæmuſtu Huggunar Jurtir, ſem laangtum betur græda Meinſemdir allar aa Saaluñi, Eñ nockur Læknings Grøs kuña ad græda Lijkamans Kvilla. Uñ alla Naatturlega Aldingarda er riettilega ſagt, ſem þeir Latinſku ſegia:

Contra vim mortis non eſt medicamen in hortis.

Pad er, Mooti Daudans Makt ver eingiñ Lækning i Aldingørdunum. Eñ uñ þeñañ Aldingardeñ JEſu Chriſti Pijnu og Dauda Hiſtoriu, heiter þad ſo ſem Jacob

Forfader sagdi: Hier er ecki utañ Guds Hwß og Hlid Himens. Jaa, Par sem Gud er, þar er Lijfid og full Gnægd Fagnadarens. Vid þeñañ Aldingardeñ mijns HErra JEsu Christi Pijnu og Dauda Historiu, hef eg, nu Stundir nidur setst med Saalu mijna, og hefi marga heilnæma Himna Jurt þadañ wtlesid, þær liggia geimdar i Siodi Hiarta mijns, Lofadur sie Gud. Af þessum Blessudum Bloomstrum hef eg nu i þetta litla Psalma Bindine so mikid Jnebundid sem eg hefi kuñad, mier skaalfum til stadfastara Miñis, og þeim sem þad gyrnast vilia til Eptirlektar. Eg maa medkieña, og medkieñi Viliuglega Faafrædi mitt i Lærdoomenum, og Mentaleysid i Skaalldskapnum, Par med þa hefi eg þessa mijna Ydkun, so sem a Hlaupi henda hlotid, Hversdagsleg Hwß-Ydia vill ei undañsellast laata hiaa þeim Faatæka. Goodañ Vilia mun Gud framar virda, eñ Vankuñendeñ vorkieña. Eñ med þvi eg þurfti þess Hælis og Samastadar ad leita þessu mijnu litla Verki, hvar þvi yrdi ecki under Beck kastad, og glatad edur tiint, Pa hefi eg hellst til yckar sied, Erusamar Heidurs Kviñur: Eirkum þess vegna, ad sa Roomur hefur mier af mørgum Froomum og vel Trwañlegum Møñum, so meiri sem miñi Haattar ad Eyrum borist, ad þid baadar, og hvør uñ sig, saña Gudrækni ydkid, Ord DRottens elskid, og goodañ goodra Verka Avøxt færid: Og fyrer þañ Skulld tilskrifa og dedicera eg yckur baadum þetta mitt litla Erfidi, J þeirre fullri Von, ad þid Erlegar Dande-Kviñur, munud þetta i goodri Meiningu giørt, vel vyrda. Pid baadar berid aagiætleg Skijrnar Nofn: Pvi sñur hefur sitt Nafn af Helgun. Siaaid (Erusøm Heidurs Kviña) J þessum Psalmum er swngid og sagt uñ þad rietta Esni vorrar Helgunar, Pvi JEsu Blood hreinsar oss af allre Synd: Saa er riettilega Helgadur og Heilagur sem aa JEsum trwer, og aa hañs Pijnu og Dauda Verdskulldan sig reiðer: Pvi kallar St. Paall sijna Tilheyrendur Heilaga i Chri-

sio JEsu, hvorium øllum Helgunena ber ad stunda.
Hünr hefur sitt Nafn ødlast af Christo, Pvi Christina
þijdist Christen Sæla, Christen Kvina. Pad er hid
besta Heidurs og Virdingar Nafn: Ad heita Christen
er ecki Mijnkun, helldur Lof, sagdi eirn gamall Lære-
Fadir: Trusom Heidurs Kvina, J þessum Psalmum
sijng eg nü Christum, og þad Esui sem ydur og alla
Trwada Riett-Christna giørir, Bædi fyrer Gudi og
Mønum. Af Einum, J JEsu Christi Bloods Verd-
skulldan alleinasta helgudum og christnum Huga, Sen-
di eg ydur (hverre fyrer sig) Erlegar og Gudhræddar
Heidurs Kvinur, þessa Lijtilmootlegu Pappyrs Gaafu,
Oskandi og Treystandi, ad þid med sama Giedi þad af
minni Hendi medtaked, meir metandi Efnesins Verd-
ugleika, en Gaafunnar ytri Audvirdugleika. Minn HErra
JEsus giefi yckur þau farsælustu Blessunar og Naadar
Not, af sinni Heilogu Pijnu og Dauda og allri sinni dijr-
mætri Forþienustu, hvers hins sama eg af Hiarta Osk-
andi er sierhverium yckar Heidurlegum, Trusomum
Ekta-Mønum, Samt yckar Elskulegum Børnum.
Skrifad ad Saur-Bæ vid Hvalfiørd, Anno 1660. þann
5. Maii. D. E. D. E.

Ætijd Goods Oskande og unnande
**Hallgrijmur Petursson.**
Overdugur JEsu Christi Safnadar
Pienare a Hvalfiardar-Strønd.



# Gudhræddum Lesara / HEJLSAN.

PAD verdur dijrast sem leingi hefur geimt ver-ed, og giefur Tvøfalldañ Avøxt i hentugañ Tij-ma framboreds, sagdi Marcus Varro: Umþeynk-ing Gudrækileg HErrans JEsu Pijnu og Dau-da, er vissulega Dijrmæt, Og hver sig Laangvarañlega giefur til þeirrar Umþeynkingar, og ber jafnañ JESU Christi Pijslar Miñing i sijnu Hiarta, Sa geimer hiñ dijrasta Hlut. Og med þvi eg hefi heñar Laangvarañ-lega Jhugan mier i Brioosti geimt, eptir þeirri Raad, sem miñ goodi Gud hefur mier giefid, þa ber eg hana nu Loksins Opeñberlega frañ i þessum Psalmum, fyrer øll uppaa JEsum lijtandi Augu, og JEsum Elskandi Hiørtu, so mikid sem eg kan og giet i þau Faa-Ordu Psalma-Vers Jñebundid: Þeim sem HErrans JEsu Pijnu elska, mun þad ei i O-Tijma giørt, Sierdeilis nær þeir rañsaka þessa ysirstandandi Eymdaña Olld, a hverri ad riettir JEsu Pijnu Elskendur meir Sorga eñ Gled-iast, og Sofandi Hyrduleysingiar (sem marger fiñast þvi verr) meir Fagna eñ Sorga. Hver Avøxtur hier af færest, befala eg Gudi. Eñ þess er eg af Gudhræddum Møñum Oskandi, ad eige wr Lage skæri nie mijnum Ordum nuñbreiti, Hvar þeir sia Ordi DRottens og Christilegre Meiningu ei a mooti: Þeir sem betur kuña, munu betur giøra. HErrañ JESUS elske þaa alla, sem hañs Heiløgu Kvøl og Pijnu Gudrækilega elska og ydka heñar Miñing.

Vale Pie Lector,

Hallgrijmur Petursson.

* * * * * *
* * *



# Peir Fimtiju Heilögu Passiu Psalmar.



## I. Psalmur.

### Uñ Christi Utgaungu i Grasgardeñ.

Ton, Miñstu O Madur a miñ Deyd.

UPP, Upp mijn Saal og allt mitt Gied, upp mitt Hiarta og Roomur med, Hugur og Tunga hiaalpe til, HErrans Pijnu eg miñast vil.

S. Paall skipar Skylldu þa, ad skulum vier aller Jördu a, kuñgiora þa Kvöl og dapraũ Deyd, sem DRottẽ fyrer oss auma leid.

Liwsaũ JEsum til Lausnar mier, Laangade þo ad deya hier, mig skyllde og lista ad miñast þess, mijnum DRottne til Packlætes.

Jũra mig Lokfins Angred skier, AE! hvad er lijtel Rækt i mier, JEsus er kvaleñ i miñ Stad, Offialldañ hef eg miñst a þad.

Saal mijn skodum þa sætu Foorn, sem hefur oss vid Gud DRotteñ vorn, Fordæmda aptur forlijkad, Fögnudur er ad hugsa uñ þad.

Hvad stiller betur Hiartans Bol, eñ Heilög DRottenś Pijna og Kvol? Hvad hepter fram= ar Kneixle og Synd, Eñ HErrans JEsu Blood= ug Mynd?

Hvar fær þu betur Saal mijn sied, saña Guds Hiartans Ustar Gied, sem Fader Giæskuñar fieck till þijn, Framar eñ hier i JEsu Pijn?

O JEsu! gief þiñ Anda mier, allt so verde til Dijrdar þier, Uppteiknad, Sunged, Sagt og Tied, Sijdañ þess adrer niote med.

## Texteñ.

†

AD lideñe Maaltijd Lof-Saungeñ, las sijnum Fodur JEsus miñ, Sijdasta Kvollded seint þad var, Sungu med hañs Lærefveinar. †

Guds Sonur sa sem Sañleiks Raad, fiælf= ur ætte æ Himne og Laad, þæde sitt Braud med Þackargiørd, þegar hañ umgieckst hier æ Jord.

Þurfa Madur ert þu miin Saal, þiggur af DRottne sierhvort Maal, Fædu þijna og Foost= red allt, fyrer þad honum þacka skallt.

Illum Þræl er þad eilijf Smaan, Ef hañ so þiggur HErrans Laan, Drambsamlega og dreiss= ar sig, DRotteñ geime fræ slijku mig.

† Epter þañ Saung, eñ ecke fyr, wtgieck JE= sus uñ Hwssens Dyr, ad hañs Sidveniu er þad skied, Til Oliu-Fiallsens gæinga ried. †

Lausnarans Veniu lær og hallt, Lofa þiñ Gud og dijrka skallt, Bænarlaus alldrei byriud sie, Burt=

Burtfør af þijnu Heimele.

† Yfer um̃ Cidrons breidañ Beck, Blessadur þa med Sveinum gieck, † Sa Lækur Nafn af Sorta ber, sijner þad goodañ Lærdoom mier.

Yfer Hormungar er mijn Leid, Æ medañ varer Lijssins Skeid, undañ gieck JEsus, epter eg, at þañ ad feta Rauna-Veg.

Horfe eg nu i Huga mier, HErra miñ JEsu epter þier, Dasamleg eru Dæmeñ þijn, dreg eg þaug giarnañ heim til mijn.

Þu villder ecke Upphlaup hart, yrde þegar þu fangeñ vart, wt i Gras-Gardeñ gieckstu þvi, Gafst þig i Mañа Hendur frij.

Af þvi lære eg ad elska ei frekt, eiged Gagn mitt, so Fridur og Spekt: Þess vegna raskest, þier er kiært, Poleñmæde og Gied hoogvært.

Sorgande gieckstu sagda Leid, særde þiñ Huga Kvøl og Neyd, hlæande Glæpa hlioop eg Stig, hefur þu kvittad fyrer mig.

Vort Lijf er Gras-Gards Ganga riett, Grøfeñ er ollum fyrer-sett, Syndugra Leid ei leik þier ad, Lender hun vijst i Kvala-Stad.

Ydrunar Tareñ ættu vor, øll hier ad væta Lijssins Spor, giegnum Daudañ med Glede og Lyst, gaungum vier þa i Himna-Vist.

† Þa JEsus nu at Veigenum var, vid Postulana hañ rædde þar, henda munde þa Hrøsun fliot, Hardlega Petur þrætte at moot. †

Frelsareñ JEsus fyrer sier, þa Fall og Hrøsun

er

er bwen̄ mier, Han̄ veit og lijka Lækning þa, sem leysa kan̄ mig Sorgum fra.

† Alldrei, kvad Petur, ætla eg, a þier þneipslast a nockurn Veg, þo aller fra þier falle nu, † Fullkomen̄ var han̄s Lofun su.

Su Von er bæde vollt og myrk, ad voga freklega a Holldsins Styrk, an Guds Naadar er allt vort Traust, Ostodugt, veikt og Hiaalparlaust.

Gief mier JEsu ad ga ad þvi, Glas-Kiere ber eg min̄ Fiesiood i; Vidvorun þijna vyrde eg mest, Veikleika Holldsins sier þu best, Amen.

# II. Psalmur

## Um̄ Christi Kvøl i Gras-Gardenum.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

†

JEsus gieck in̄ i Gras-Gard han̄, Gethsemane var nefndur han̄, † af Oliu Prwgan þad Auk-Nafn bar, Oliu-Tried rietta HErran̄ var, Oleum Hiaalpræd es allra fyrst; Af han̄s Lijfe þar pressadist.

J Allden-Garde fyrst Adam braut, aptur JEsus þad bæta hlaut, Alldengards Eyken̄ Avext gaf, Eymd, Synd og Dauda kom þar af; J Alldengarde limst Lijffens Tried, Lijfgunar Friofgun veita ried.

† Judas þeckte vel þeñañ Stad, † Þar hafde hañ leinge umhuxad, hellst munde Platz þad hentugast, HErrañ mætte þar Forrædast, So fæster hefdu ad seigia af þvi, og Svik hañs læge so Hylning i.

Satan hefur og sama Lag, Situr hañ uñ mig Nott og Dag, hyggiande ad gløgt hvar hægast er, i Hættu og Synd ad koma mier; Eñ þo i þeim Stad allra mest, Sem æ eg Gude ad þiona best.

Heims Borneñ hafa List þa lært, Lygd og Svikræde er þeim kiært, Footsporum Diofuls fylgiande, Falsrædeñ draga þo i Hlie. Fra hañs og þeirra Hreckia Stig, HErra JEsu bevara mig!

† Opt hafde JEsus i þañ Stad, ædur geinged: † Þvi veit eg þad, hefur sañlega HErrañ miñ, hugsad uñ Pijnu og Dauda siñ, Fulltingis beded Fodureñ þar; So jeinge hañ stadest Pijslernar.

Jurta-Gardur er HErrans hier, Helara Guds Barna Legstader, þegar þu geingur uñ þeñañ Reit, þijn sie til Reidu Bæneñ heit, Andlæts þijns giæt og eirneñ þa, Upprisu-Dageñ miñstu æ.

† Læresveinana Lausnareñ kiær, Liet sama bijda nockud fiær, Priæ took þo med sier Hiarta hreirn, † Hañ øyrntest ecke ad vera eirn: Sæla mijn þar uñ þeynkia skallt, Þier til Lærdooms þad skiede allt.

Guds

Guds Christne er Gras Gardur hreirn, Guds Sonar ertu Læresveirn; Sit þu hvar sem hañ seiger þier, Soñ-Hlijðn besta Offur er, til Kroßens ef hañ þig kallar þar, Kom þu gladvær aa Moglunar.

Freisting þwng ef þig sellur aa, fordastu Eirn ad vera þa, Gudhræddra Selskap gyrnstu mest, giefsa þeir jafnañ Raadeñ best, Huggun er Mañe Moñum ad, Myskun Guds hefur so tilskickad.

† Hiartañlega vard Harmþrwngeñ, HErrañ JEsus i þetta Siñ, Holldeð skalf vid þad feikna Faar, flutu i Vatne Auguñ klaar, sagde graatande: Saal mijn er, so allt i Daudañ hrigg i mier.

Hart nær Stein-Snare fraa þeim foor, Fiell strax til Jardar DRotteñ vor, slatur sitt Blessad Andlit aa, Ognarleg Kvøl hañ mædde þa, Hiartad bardest i Briooste heitt, Bæde var Lijf og Saaleñ þreitt. †

Samvitskañ mig nu siaalfañ slær, sie eg þad giorla JEsu kiær, mijn Synd, mijn Synd, hun þiaade þig, þetta allt leidstu fyrer mig, Avi! hvad hef eg aumur Præll, auked þier Mædu DRotteñ sæll.

Mier virdest so sem mijn Misgiord, sie meire ad Pijned, eñ Himen og Jord, þvi JEsus þad Fodursins Orded er, sem allt med sijnum Krapte ber, slatur hlaut þo ad falla þar, þa fyrer mig bar hañ Syndernar.

Hiartans Glede og Huggun traust, hier giefst hier

þier Saal mijn Efalaust, þad Gialld fyrer mijna M'sgiörd, er meira verdt eñ Himen og Jörd, hañs Sorg, Skiælfte og Hiartans Pijn, hiaa Gude er eil'jf Kvittan mijn.

† Fram þegar JEsus falleñ var, Fegurstu Bæn hañ giörde þar: Abba Fader æstkiære miñ, af mier tak þeñañ Kaleikeñ, Þo so sem hellst þu siælfur villt, Sagde JEsus med Gieded stillt. †

Urrædeñ best er audmiwkt Gied, æangrad Hiarta og Bæneñ med, hvoñær sem kiemur Hörmung ad, huxa þu Saal mijn vel uñ þad, Oþoleñmæde og Moglun þver, meire Ressingar afl-ar sier.

Obliwgur skalltu alldrei neitt, wtheimta hvad þu gyrnist veitt, til Holldsins Muna hentugt þier, huxa jafnañ ad DRotteñ sier, hvad Lijfe og Saal til Lids er nu, Laangtum betur eñ siælfur þu.

Eins Lijkameñ og Sæleñ sie, Sañaudmiwleg i Bæneñe, ælijtur DRotteñ iñra hitt, Ei ad sijdur skal Hollded þitt, fyrer Gud med Blygdun gaanga fram, giörde so fordum Abraham.

JEsu þijn Grætleg Gras-Gards Pijn, gledur, erþiæda Saalu mijn, Þitt Hiartans Angur Hiartad mitt, fraa Hrygd og Mædu giörde kvitt: Þvi skal mijns Hiartans Hiarta-Þel, Heidra þig miñ Jmanuel.

* * *

# III. Psalmur.

## Um̃ HErrans Christi Dauda Striid.

Med sama Lag.

NU vil eg Sæl mijn uppa ny, Upphaf taka a Maali þvi, † Upp stood JEsus þo þreyttur sie, þrisvar siñum fra Bæneñe, Læresveinarner svæfu fast, S. Petur þvi avijtast.

Til og fra gieck hañ Prisvar þo, † Par fieckst ei miñsta Hvijld nie Roo; Undañfæri þvi eckert sañ, allstadar DRottens Reide brañ, giegnum Holld, Ædar, Blood og Bein, Blesse Gudlegrar Heiptar stein.

Himna Liossid var honum byrgt, hellst þvi af Nott var orded myrkt, Astvina Hugaun aungva sañ: Aller svæfu um̃ Tijma þañ, Jordeñ var honum O-hæg eins; Eingeñ fieckst Boot til þessa Meins.

J þessum Speigle pad sie eg, þeim sem DRottiñ er reidur mioa, hvorke verdur til Hugaunar, Himin, Lioos, Jord nie Skiepnurnar, an Guds Nadar er allt um̃ krijng, Eymd, Mæda, Kvol og Fordæming.

Framar siest hier hvad særlea sie, Fordæmdra Kvol i Helviite: Fra eiñre Plagu t'l añarar, J ytstu Myckrum þeir rasa þar; O! hvad Syndeñ afskapleg er, allt þetta færer hun med sier.

J Pridia Maata af þessu siest, þad læ: du Saal mijn allra best, Guds Reide-Eid og eilijft Faar, utslocktu og lægdu HErrans Taar, allt hönum þvi til Ama var, So allt verde hier til Huggunar.

Hrygdar-Sporeñ hijn HErra miñ, J Himnarijke mig leida iñ: J Nætur Myrkrum laa Neyd aa hier, Naudar og Dijrdar Lioos gafst mier; Viner hier aungva veittu Stod, So Vinskap feinge eg vid saññ Gud.

† Par kom Loksins aa þeirre Tijd, þreitte JEsus vid Daudañ Strijd: † Andlaat mitt bæde og Banga-Soott, blessadest mier þa somu Noott, Daudeñ tapade, ORotteñ vañ, Dijrdlegañ Sigur gaf mier hañ.

† Agieck so Daudans Asled rijkt, eckert Dæme maa fiña slijkt, allur Lijkame Lausnarans, Laugadest þa i Bloode hañs, saa Dreira Sveiteñ dunde aa Jord, † ORotteñs Pijna þvi miög var hörd.

J Adams Brote var Bloodskulld giörd, Bölvan leidde þad yfer Jord, JEsu Blood hier til Jardar hnie, Jordeñ aptur so Blessad sie, Avoxtur, Groode og Alldin klaar, Oss verde ad Notum sierhvert Ar.

Saar-kallda Daudans Sveitabad, uñ sijdér þa mier kiemur ad, Saar-heite Dreira Sveite þiñ, Sefe og mijke JEsu miñ, Angistar Sveita eilijft Baal, alldrei laat snerta mijna Saal.

Mier er so Kvöl þijn miñeleg, aa Morgne hverium

ium þa uppstend eg, fyrst eg stiig nidur Fæte a Jord, fære eg þier Hiartans Packargiord, Blo-od-Sveitiñ þiñ eg bid mier sie, Blessun og Vernd a Jorduñe.

Hørmung þa særer Huga miñ, hef eg mig str-ax i Gras-Gard þiñ, Dropana tijne eg Dreyra þijns, DRotteñ i Sioodeñ Hiarta mijns, þad Gialld alleina gylldet mest, hiaa Gude fyrer mijn Afbrot vest.

Upphaf alls mesta Ofognuds, Aflogun strau-ng og Reide Guds, Bætt er, Fridstillt og forlijk-ad, Fadereñ liet sier lynda þad, Sonureñ bar hañs Bræde frij, Borgadest Prælleñ wt med þvi.

† Pess meir sem Pijnañ þreyngde ad, þvi iñe-legar JEsus bad, Heilagur Eingell Himnum fraa, HErra siñ kom ad styrkia þa. † Eñ hefur þu hi-er Eirn Lærdoom, Ydka og Lær hañ Saal mijn froom.

Ef hier verdur, sem opt kañ skie, Undañdraatt-ut a Hiaalpeñe, Bid, Stin, Andvarpa æ þvi meir, sem aukast vilia Harmar þeir; Fodurlegt Hiarta hefur Gud, vid hvorn sem lijdur Kross og Naud.

Siaa þu ad Eingell sendur var, Syne Guds hier til Huggunar, Peir goodu Andar oss eru nær, alla Tijma þa bidium vær, hellst þa Lijfs Enda lijdur ad, Lazari Dæme sijner þad.

Heidur, Lof, Dijrd a Himne og Jord. Hiar-tanleg Astar Packargiord, DRotteñ JEsu þier

sætast

sætast sie, Sungeñ af allre Christneñe, Fyrer Striided þig þiaade freckt, Pad er vort Frelse Æfenlegt.

## IV. Psalmur.

### Samtal Christi vid Lærесveinana.

Ton, Eirn Gud Skapare allra sæ, etc.

†

Postula kiere Christur Priaa, J Kvoleñe sier ad vera hiaa, baud þeim, Vaked og bidied viist, brædleg Freistne so grande siist.

Strax sem JEsus uñ Steinsnar nær, Stie fram leingra þess giætum vær, aller sofnudu sætt med Roo, sialfur HErrañ Eirn vakte þo †

Adur var soddañ uñ þig spaad, æsett framkom nu HErrans Raad, Pu hlaust Guds Reide Prwgu eirn, þreyttur ad troda JEsus hreirn.

Ef eg skal ecke sofa i Synd, so er Natturañ veik og blind, uñ Steinsnar mættu Eitt mier þa, alldrei miñ JEsu viikia fraa.

Nætur Hviilldeñ miin Natturlig, noog er mier trygg, þa veit eg þig, hiaa mier vaka til Hialpræðes, hvert Kvolld vil eg mier Osska þess.

† Prisvar JEsus til þeirra foor, Po ad hañ mædde Piina stoor, hañ bad Petrum med hriggre

Lund, hiaa sier vaka um̃ Eina Stund.

Eñ hañ sofnade æ þvi meir, Ei helldur vissu siaalfer þeir, hvoriu svorudu honum þa, HErrans Pijnu miog jook þad aa. †

Mig hefur liwfur Lausnareñ, leidt iñ i Naadar Gras-Gard siñ, Vakande so eg være hier, Vitne Skijrneñ mijn um̃ þad ber.

Ungdoms Bernskañ sem vonlegt var, villde mig ofmiog svæfa þar, Forelldra Hyrting hoogværlig, hañs vegna kom og vakte mig.

Alldureñ þa mier odladest, aafiell Giaalijfis Svefneñ mest, Kieñemeñ DROttens komu þraatt, Kolludu mig ad vakna braatt.

Fullvaxiñ Gleyniskn Svefneñ saar, sookte mig heim og vard miog daar, Dim̃añ Heims Elsku drooft ad med, dapurt vard mitt til Bænar Gied.

Pa kom Guds Anda Hræring hrein, i Hiartad mitt iñ saa Lioomeñ skein, eñ i Helmskuñe svo eg svaf, Siallðañ mig neitt ad slijku gaf.

Faarlega var mijn Fijslskañ blind, forlaat mier JEsu þessa Synd, hvar med ad jook eg Hormung þier, eñ Hefnd og Refsing sialfum mier.

Laattu þo alldrei leidast þier, Liwfe JEsu ad benda mier, huxe til mijn þitt Hiartad milldt, hyrtu mig lijka sem þu villt.

Vil eg nu Hiartans feigeñ faa, Frelsare miñ ad vaka þier hiaa, Andeñ til Reidu er i Stad, Ofmiog Hollded forhindrar þad.

† JEsus unte med liwfre Lund, Læresveinum ad

ad hvijla um̃ Stund, † Pvi han̄ vorkynte þeim og mier, þad eitt mijn blessud Huggun er.

† Sijdast allra þa saa han̄ þar, Svikara Lid fyrer Hendi var, baud þeim vaked og bidied best, burt er nu Værdar-Tijden̄ mest. †

Soddan̄ Amiñing Saala mijn, sañlega skyllde naa til þijn, so þig ei skade Svefnen̄ vær, Svikaren̄ er þier ecke siær.

Dauden̄ Forrædur Fiorid þo, fyrr en̄ varde þvi margur doo, han̄ er i naand þo siaaest sijst, sierhvorn Dag er hans Ahlaup vijst.

Dauden̄ þa mæter dapur þier, Doomen̄ hefur han̄ epter sier, Andskoten̄ bijdur bwen̄ þar, i Baaled vill draga Saalernar.

Siaa þu vel til ad soddan̄ Her, Sofande kome ecke ad þier, J hreirnre Ydran þu hvorn Dag vak, Her-Skrwda DRottens aa þig tak.

Bænen̄ maa alldrei bresta þig, bwen̄ er Freistíng Ymislig, þa Lijf og Saal er lwd og þiaad, Lykill er hun ad DRottens Naad.

Andvana Lijk til einskis neytt, er ad Sioon Heyrn og Maale sneidt, svo er aan Bænar Saalen̄ snaud, Sioonlaus, Kolld, Dauf og riett Steindaud.

Vaktu min̄ JEsu, Vaktu i mier, Vaka lattu mig eins i þier, Saalen̄ vake þa sofnar Lijf, sie hun ætijd i þin̄e Hlijf, Amen.

* *   * *   * *
*   *   *

# V. Pſalmur.

## Um̃ Gydingaña Komu i Gras-Gardeñ.

Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Saal, etc.

†

MEdañ JEſus þad mæla var, Mañfiølde kom i Gardeñ þar, Judas ſaa HErrañ ſiñ forried, Sveinar Preſtaña og Striids-Foolk med, Skridbittur bæru Blis og Sverd, † bwner miog wt i þeſſa Ferd, um̃ þad eg framar þeynkia verd.

Verdur þad opt þa varer miñſt, Voveifleg Hætta bweñ ſiñſt, Ein Noott er ei til Enda trygg, ad þvi æ Kvoldeñ Sæl mijn hygg, Hvad hellſt ſem kañ ad koma uppæ, Kioos JEſum hier ad vera hiæ, Skielfing eingeñ þig ſkadar þa.

† Eñ Judas hafde ædur ſagt, Audkieñe þeim, og ſo vid lagt, hvørn eg kyſſe handtaked þañ, høndled med Giætne og binded hañ. † Varaſtu Sæl mijn Svik og Prett, Po ſiinaſt meige i Hylming ſett, DRotteñ auglioost þad dæmer riett.

† Eñ JEſus ædur allt fornam, hvad ætte vid hañ ad koma fram̃, Po gieck hañ ſiælfur þeim æ moot, Pañeñ rædde med Kiærleiks Hoot. ad hvørium leited hijngad þier? Hoopur Jllmeñis þañeñ tier, JEſum Nadverſka nefnum vier.

Jeg er hañ: Sagde JEſus þa, Judas ſiælfur ſtood Flocknum hiæ, oſlugt var DRotteñs Ord-

ed

ed þad, Aller til Jardar fiellu i Stad. † Hvad hañs Ovine hrellde mest, Huggar nu mijna Saalu best; J allre Neyd þad auglijsest.

Pa eg fell edur hrasa hier, Hædstur DRottenñ vill Reidast mier, Pa seiger JEsus, Eg er hañ, sem Endurleyste hañ Syndarañ, med mijnu Blode og beiskre Pijn, Bræde Fader kiær stilltu þijn; Eslaust er þad Affokun mijn.

Diofull, Synd og Samvitskañ ill, Saalu mijna þa kvelia vill: Eins seiger JEsus, Eg em hañ, Sem asmaa þijna Misgiord vañ, Lijka sem Vindur liettfær Sky, Laangt feiker burt, og siaast ei þvi; A mig trw þu, so ertu frij.

Þegar mig særer Soott eda Kvol, Sorgleg Faatækt og Heimsins Bol, Jeg veit þu seiger: Jeg er hañ, JEsus sem lækna vill og kañ, Audlegd aa Himnum aattu vijst, Eymd þijn og Hryggd i Glede snijst, Heimeñ sigrade eg, Hrædstu sijst.

A Dauda-Stund og Doomsins Tijd DRotteñ þad skal mijn Huggun blijd, Ord þitt er sama: Eg er hañ, sem iñ þig leide i Himna-Rañ, Þioon miñ skal vera þar eg er; Þvi hefur þu JEsus lofad mier, Gladur eg þa i Fride fer.

Jeg seige aa moote, Jeg er hañ, JEsu, sem þier af Hiarta añ, Ord þitt laat vera eins vid mig, Elska eg, Seigdu, lijka þig, Eillijft þad Samtal ocker sie, uppbyriad hier aa Jorduñe, Amen, Eg bid so skylldi skie, Amen.

* * *

# VI. Psalmur.

## Um̃ Judas Koss og Christi Fangelse.

Ton, Eirn HErra eg besi ætte, etc.

†

Frelsaren̄ hvorge flijde, Fiand-Men̄ þa lau sen̄, HErran̄ beid þeirra hiñ þijde, þeim leisde a Fætur en̄, hvorn helst þeir hure ad fiña, han̄ spyr, sem liooft eg giet, Jafnt sem fyr Judai iña: JEsum af Nazareth.

Eg em han̄, aptur sagde, Añad Siñ JEsus hatt, Lærisveinunum lagde, Lijknar Ord þetta bradt, ef m'jn ydur lyster leita, þa lated þessa frij. Bwen̄ var han̄ ad heita, Hialprædis Orde þvi. †

Hier af maa heyra og skilia, HErrans vors JEsu Magt, ecke gat aan hans Vilia, a han̄ neirn Hendur laat. Vid mig þo Hatre hreise, Heiptar-Men̄ Illgiarner, Eingen̄ kan̄, utan̄ han̄ leise, Eitt skierda Haar a mier.

Fodurnum Hiarta hlijden̄, han̄ gafst a þeirra Valld, Saal mijn þvi siert Okvijden̄, Siaa þitt Ohlijdnis Gialld, vilugur villde han̄ bæta, vijst er þijn Skyllda audsien, Ast og Audsveipne mæta, attu ad leggia i Gien.

† Judas kom fliott sem kun̄e, Kyssande JEsum nu, mællte flaradum Mun̄e,: Meistare! Sæll vert þu, HErran̄ Hoogværdar rijkur, han̄ sagde: Pu min̄ Vin! med Kosse Son Man̄sins svijkur,

svijkur. Sijst mun þvi Hefndenn lin. †

Evu Mun Epled Eina, aumlega gynte unn Sinn, Fals-Koss þvi fieck ad reyna, Frelsarenn Munur þinn, Blijdmælum Dioful bægdu, So bleckest eg ecke af þeim, Heims Hrecke lijka lægdu, Lijf mitt og Æru geim!

Audsien eru Augum þijnum, oll Viel og Laun-svik hier, hritt þeim wr Huga mijnum, hreint ska-pa Gied i mier, virdstu mig Vin þinn kalla, verda lát Raun þar á, Hollds Brest og Hræsne alla, hindra og rek mier frá.

J Hriad og Hæska mikenn, hefur mig Satan leidt; O hvad opt eg verd svikenn! ei giet eg hiá þvi sneidt, Son Mannsins Svikum mætte, sann-lega uppá þad, Svikana Haskenn hætte, Hiá mier ei finde Stad.

Munur þinn (ad eg meina) minnest vid JEsum bert, Pa Holld og Blood hanns hreina, hier fær þu Saal mijn snert. J Guds Nafne ad þi r ráu-du, Gief honum ei Koss med Viel; J Trw og Ydran þig tiádu, Tilbw þitt Hiarta vel.

† Þangad þegar ad Stundu, þuste Illræd-is Lid, Liwfasta Lamb Guds bundu, Loked var ollum Frid, Hardsnwnum Reipum reirdu, Ranglætis mijns hann gallt; Ormotten i Droo-ma keyrdu, Dofnadi Hollded allt. †

Judar þig JEsu streingdu, Jeg gaf þar Efne til Synder mijnar þier þreyngdu, þess nu eg yd-rast vil, Glæpa-Bond af mier greider, og gief

mier Frelsid þitt, Andlegum Dofa eydir, sem á fiell Hiartad mitt.

Guds Son var gripeñ Hondum, giefeñ so yrde eg frij, Hañ reirdest hordum Bondum, hlaut eg Mykun af þvi, Fiotur þung og Fangelse, frekt lá miñ HErra á hier, Daudans og Diofuls Helse, duttu þvi laus 'af mier.

Bid eg þijn Bondeñ hordu, Bindi nu hvorn miñ Lid, frá allskins Glæpa Giordum, og goldum Heimsins Sid, laus og lidugur Ande, Lijfs medañ dvelst eg hier, Pier sie jafnañ þioonande: Þessa Boon veittu mier, Amen.

# VII. Psalmur.

## Uñ Vorn St. Peturs, og Malchus Eyra-Saar.

Ton, Giæsku Guds vier prijsum, etc.

†

Lausnarans Læresveinar, þa litu Atburd hañ, og Juda Athafner einar, Aller señ spurdu hañ, Eigum vier ecke ad slá, Ovina Sveit med Sverde, so hier ei þijngra af verde? † Saal mijn hier giör ad gá.

Ef þu áforma villder, Eitthvad sem Vande er á, Þarfleg Raad þiggia skyllder, og þig vel fyrer siá, af þvi optlega skier, sá s m er eirni Raadum, Eirn mæter Skada bráðum, seint þa ad ydrast er.

Eñ

Eñ med þvi Mañleg Vitska, J morgu næer skamt, at allt kañ ecke að giska, sem er þo Vanda-samt, Kost þañ hiñ besta kioos, Guðs Orð sær sijnt og sañað, hvað sie þier leyst eða bañað, Það skal þitt Leiðar-Lioos.

† Petur með svellu Siñi, Sverð wr Slijðrum droo, hañs trwe eg Bræðeñ briñi, og heint i Flockeñ sloo, Malchus hlaut hier af Tioon, Hañ miste hið hægra Eyra, Hoggeð took ecke meira, þesse var Biskups Pioon.

Lausnareñ liooft nam svara, Læresveinunum fyrst, lated þessa fraṁfara, Frekast að siñe Lyst, Petre so sagðe nu: Sverðs Dauða sa skal sekur, sem Sverð aan Leifis tekur, Sverð slijðra Simon þu.

Meinar þu, Faðereñ millde, munde el senda hier, Ef eg þeß Oska villde, Eingla til Fylgðar mier, fleire eñ Toolf Fylkingar? Eða mun skylldt eg ecke, auskeinktañ Kaleik drecke, sem mier þo sett-ur var?

So mun uppfyllast eiga, hvað er i Ritning tiað, og sijðañ sañast meiga, hvað siest fyrer laun-gu spað. So epter Sermon þañ, Eyra Pioonsins ahrærðe, sem aaður Petur særðe, Læknaðe að heilu hañ. †

Saal mijn lærum og siaum, með sañre Hiartans Lyst, Tveñslags Sverðs glogt við gaaum, greina skal þar uṁ fyrst, Sverð DRottens Doomareñ ber, Sverð eigeñ Hefndar añað, sem oll-

um verdur bañad, Pad kieñer Chriſtur hier.

Bid eg hier gløgt ad giæter, Good Ballds-Stioorn Heidarlig, Saklauſañ ſijſt þu græter, nie ſiælſañ meider þig, vird Sverd Guds Bandlætis, Blood ſkalltu þvi ei baña, burtſnijd þu Grein Laſtaña, merk Dæme Moyſis.

Þitt Sverd ſem þitt er eiged, fyrer þijna eigeñ Sok, ſkal ei wr Skeidum dreiged, ſkijr eru þar til Rok, JEſus þad bañar bert, hønum er ſkyllt þu hlijdir, Hoogværuñberer, Lijdir, Pad moote þier er giørt.

Ræn ei Gud ſijnum Riette, þvi Reikuaſt Hefndeñ hañs, Ballds-Stioorn til Verndar ſette, vijda uñ Bygder Lands, Ellegar ad þvi gaar, Sverd DRottens ſem hier nefneſt, ſañlega æ þier hefneſt, Tioon þitt Tvøfalldaſt þa.

Malchus ſem miſte Eyra, merker þaa alla frij, ſem Ord Guds ecke heyra, eiga þo Koſt æ þvi, Heyrn er þeim hægre ſlioo, Vinſtre Hluſt heillre hallda, Haad og Spielne margfallda, noog gieta numed þo.

Skælka-Mark mætte kalla, Malchus hier feinge riett, æ Guds Ovine alla, Einkieñe ſlijkt er ſett, Ord hañs ei ackta hier, Jeg bid og jafnañ ſeige, JEſu miñ, lættu eige, þad Merki ſiaſt æ mier!

Eñ fiñur þu hier framar, Frelſarans Dæmed beſt, Hørmungar Hættuſamar, æ hønum lau meſt, ſitt Trauſt þo ſette hañ, æ Guds Fødurs Giæſku

Giæsku rijka, gior þu þad Sæl mijn lijka, Ef Kross þig henda kan.

Kvol sijna JEsus kallar, Kaleik a-steinktan sier, Kross þin og Eymder allar, Eins mættu nefna hier, þvi DRotten drack þier til, fyrer þig þa han pijndest, so þu mijn Sæl ei tijndest, gior honum giarnan Skil.

Þu mætt þig þar vid hugga, han þecker Veikleik Mans, um þarftu ecke ad ugga, A-dryckiu Skamten hans, vel þijn Vankvæde sier, hid snrasta drack han sialfur, sætare og mine en halfur, Skierfur er skeinktur þier.

Heipt mijna og Hefndar-Næme, hefur þu JEsus bætt, mier gafst Mangiæsku Dæme, þa Malchum sieckstu grædt, Eg þarf og eirnen vid, Eyrad mitt læknad yrdi, so Ord þitt heyre og virdi, þijdlega þess eg bid.

Hialpa mier HErra sæle, ad hallda Kross-Bikar min, so mig ei undan mæle, nie mogle um Vilian þin, Eg bid Almætte þitt, Vorkyne mine Veiki, ef verda kan eg skeiki, Hrestu þa Hiartad mitt, Amen.

# VIII. Psalmur.

## Predikun Christi fyrer Gydingum.

Ton, Sem frials vid Legmal fæddur er, etc.

Talade

Allade JEsus Tijma þañ, til vid Ovine sijna, sem komner voru ad høndla þañ. Heyrum þa Kieñing sijna.

† Sem til Illvirkia erud þier, wtgeingner mig ad fænga, ædur gat eingeñ meinad mier; J Musterenu ad gænga.

Daglega hef eg sijnt og sagt, Sañleikſins Kieñing mæta, Eingeñ gat Hendur æ mig lagt, ættud nu þess ad giæta.

Yfer stendur nu ydar Tijd, uppfylld so Ritning verdi, Myrkrañа gelsar Makteñ strijd, Mæla so JEsus giørdi. †

Lirflyndi blessad Lausnarans, lijttu hier Sæl mijn klæra, Sæ vill ei Dauda Syndugs Mañs, Goddañ mættu nu læra.

JEsus þeim sijnde i sañre Raun, Sælar Heill, Nad og Frelsi, Guds Syne Judar gulldu i Laun, Grimd, Hatur og Fængelsi

Furda þvi, Sæl mijn, eingeñ er: Ei skallt þvi Dæma tijna; Po Veroldeñ laune Vondu þier, Velgiørd miog litla þijna.

Gydinga Dæme skynia skallt, skil þig vid Odygd slijka, Packlæti fyrer Goodgiørd giallt, Gudi og Moñum lijka.

Jeg læt mier þessu jafnframt sagt, JEsu af Ordum þijnum, Eingeñ gat Hendur æ þig lagt, ad eigeñ Vilia sijnum.

Pañ Takmarkada Tiimans Punct; tilsette Fadereñ millde, Nær þad Anaudar Oked þrongt,

yfer

yfer þig gaanga skyllde.

Eins Upphaf lijka og Ending med, allrar Hør-mungar miñar, Fader Himneske, er fyrersied; J Forsioon Myskunar þiñar.

Þesse nu Tijmeñ ydar er, Ovinum JEsus sagde: HErrañs eg þetta Maaltak mier; J Miñe og Hiarta lagde.

Nu stendur yfer mijn Naadar Tijd, Naudsyn er þess eg giæte; Lijdur mig DRottens Bidlund blijd, Brot mijn so kvittast mætte.

Ef eg þa Tijd sem Gud mier gaf, Gaalaus for-sooma næde, DRottens Tijme þa tekur af, Tvij-mæleñ oll i Bræde.

Þvi leingur sem hañs Bidlund blijd, Bedid forgiefins hefur, þess hardare mun Heipteñ strijd, Hefndar þa DRotteñ krefur.

Guds vegna ad þier giær mijn Saal, Glæpum ei leingur safna, giørum Ydran þvi meir eñ Maal, Mun vera Synd ad hafna.

J Dag vid skulum skipta um skiott, skal Synd a Flootta rekiñ, Hvør veit nema sie nu i Noott, Naadeñ i burtu tekiñ.

Talar JEsus um Myrkra Makt, merked þad Valldstioornendur, Ydur skal nu i Eyra sagt, Umdæmed Heims tæpt stendur.

Liooseid Myrkreñ burt leider frii, med Lioosma Byrtu siñar. Varastu ad skijla Skaalkum þvi, J Skugga Maktar þiñar.

Miñstu ad Myrkra Makteñ þver, þa Myrkur Daud-

Daudans skallt kaña; J ytstu Myrkrum eingeñ
sier, Adgreining Hofdingiaña.

Myrkre liettare er Makteñ þijn, miñst þess fyr-
er þiñ Dauda, þa DRotteñs Hatignar Dijrd-
eñ skijn, Hañ dæmer eins Rijka og Snauda.

Fyrst Makt Heims er vid Myrkur lijkt, Mijn
Saal hallt þier i Stilli, varastu þig ad reida rijkt,
æ Rijkis-Maña Hylli.

DRotteñ JEsu þu Lijfsins Lioos, lijstu Valld-
Stioornar Moñum: So þeir sem ræda yfer oss,
Efleft ad Dygdum soñum!

JEsu þijn kallda Kvala-Stund, Kvala-Tijd
af mier svipte, Guds Barna gasst mier Glede-
Fund, Good voru þaug Umskipte.

Myrkraña þreyngde Makteñ þier, mig so leyst-
er wr Vanda, Kvalaña ytstu Myrkur mier,
meiga þvi alldrei granda, Amen.

# IX. Psalmur.

## Um Flootta Læresveinaña.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg æ, etc.

†

DA Læresveinarner sau þar, siñ HErra
gripeñ Hondum, Og hañ af Fool-
ke vestu var, Vægdarlaust reirdur
Bondum, Aller señ honum flydu fra,
Forlietu DRotteñ hreinañ; J Hasska ein-
añ,

añ † Ad soddañ skulum vid Saal mijn gaa, siaaum hier Lærdoom beinañ.

An DRottens Raada er Adstod mañs; J aungvu minsta Gillde, faanijtt reyneft opt Fylged hañs, er frekast hiaalpa skyllde, hvor eirn vill forda siaalfum sier, Ef sijnest Hæske bweñ, ad Hende snweñ; Far þvi varlega ad fallvollt er, Frænda og Vina Trweñ.

J sama Maata sier þu hier, Saal mijn, i Speigle einum; Ad hrygglegar sie haattad þier, eñ HErrañs Læresveinum, Peir hosdu Leyse Lausnarans, Lijfe ad forda sijnu, Fraa farre Pijnu, Nauduger mistu Raavist hañs, nu giæt ad Raade þijnu.

Hvad opt JEsu þier fliide eg fraa, Frekt aa moot Vilia þijnum? Pa Glæpa Veigeñ gieck eg aa, Gyrndum fylgiande mijnum: Forskulldad hafde eg fyrer þad, Floottamadur ad heita, Til Heliar-Reita; Eñ þu virdtest mier aumum ad, aptur i Myskunleita.

Eirn varstu JEsu epter þvi, J Ovina laateñ Hondum, Eirn so eg være alldrei i, Eymd og Freistingum vondum, aller forlietu Einañ þig, allt so mig hugga kyñe, J Mañraun miñe; Eg bid DRotteñ laat ecke mig, Einsamlañ nockru Siñe.

† Læresvein, Saal mijn, siaa þu hañ, sem JEsu epter fylgde, Raanglaat Ungmeñe ræntu hañ; Riett nakeñ vid þa skyllde. † Bersnoggur Flootte betre er, Eñ Brædalag Oriettinda,

vid Selskap Synda, Alviñug laat þig aungvañ hier, J þeirra Flocke binda.

† Burt þadañ JEsum færdi flioott, Flockur Jllrædis Maña, Lamb Guds Saklaust, þa leid ad Noott, Leiddu þeir til Kvalaña, Myskunarlaus sw Medferd braud, Mier virdest epter Vonum; J Nætt-Myrkrunum, þeir hafa bæde hrakt og hriaad, hrunded og þiakad honum. †

J Daudans Myrkrum eg dæmdur Præll, dragast ætte til Pijnu; Eñ þu tookst JEsu Son Guds sæll, Saklaus vid Straffe mijnu, Pañeñ tilbiooftu Lijffins Leid, Lioomande, Sælu miñe; Po Lijf hier liñe, Andlæts Kvolum og kalldre Neyd, Kvijde eg þvi aungvu Siñe.

Hroktu þvi so og hriædu þig, HErra miñ Jllsku Piooder, ad hier nu bære æ Hondum mig, Heilager Einglar gooder, Mædusoln urdu Myrkureñ þier, mæta lietu þig hordu og Hindrun giordu, Guds Dijrdar Lioos so lijse mier, A Lifande Maña Jordu.

Kvala-For JEsu þesse þijn, sem þa giekstu Einu Siñe, vere Kraptur og verndeñ mijn, so Vegeñ Lijffins eg fiñe, Lææt ecke Dioful draga mig, J Dofeñleik Holldsins blinda, Til Sekta og Synda, Eg bid af Ast og Alwd þig, Akiefd hañs burtu ad hrinda, Amen.

* * *

10. Ps.

# X. Psalmur.

## Um̃ Fyrsta Ransak fyrer Caipha.

Tyn, Allt mitt Raad til Guds eg set, etc.

†

Til Hañas HERRañ Christ, Hardrææder Judar leiddu fyrst, Beisk fræ eg Bond hañ sære, Honum strax þaðañ viisad var, Vidtekt fieck ei nie Hvijlder þar, Miøg svo þoott mæddur være.

Burt sende þvi med beiskre Pijn, bundeñ Caiphas Mææge sijn, Hañas, vorn HErrañ sæta, Hofud-Kieñemañs hædstu Stiett, hafde sæ þetta Aared riett, Guds Løgmææls ætte ad giæta. †

Ur Himna-Rijkis Hvijldar-Stad, hofdum vid Saal mijn forskulldad, wtrekeñ vijst ad vera, Eñ JEsus took nu uppæ sig, O-nææðan þessa fyrer þig, Lof sie þeim liwfa HErra.

Hiartad bæde og Hwsed mitt, Herberge vere JEsu þitt, hiæ mier þigg Hvijld hentuga, þoott þu komer med Krossen þiñ, Kom þu Blessadur til mijn iñ, fagna eg þier feigeñs Huga.

† Caiphas hafde hier um̃ spææd, Hentugast munde þetta Raad, ad dæe Eirn fyrer alla. † Eurbættes mællte Andeñ þar, af þvi Hiartad ei visse þar, Sañleik Guds sinte valla.

Balaams Dæme eins var eitt, Andagypt slijk var honum veitt, spaklega Tungañ spæde, hañ

 hafde

hafde i Siñe Hreckia-Raad, Hiartad fieck ecke Sañleiks geed, Pvi hañ Fie-Gyrndeñ hiarde.

O JEsu! lat þiñ Anda hier, alldrei viikia i burt fra mier, Leid mig Veg Liiffsins Orda, so Hiartad bæde og Mæled mitt, mikle Samhuga Nafned þitt, Hollds-Gyrnd og Hræsne forda.

† Til Caiphas voru komner señ, Kieñevallded og Stioornar-Meñ, Biskupeñ þegar ad Bragde, Leitar Andsvars til Lausnarans, uñ Læresveina og Kieñing hañs, Eñ JEsus aptur sagde.

Opeñberlega eñ ecke leint, J Musterenu kienda eg beint, hvad spyr þu mig uñ þetta? Kuñgiora meiga þar uñ hier, Peir sem Lærdoomeñ heyrdu af mier, Pa lættu þig Leidrietta. †

Giæt ad miin Saal og siaadu þar, Sonur Guds under Ransak var, Krafdur þad Kvollded Eina, A Kvollde hvøriu þu koma skallt, Kvolld-Reikning vid þig sialfur hallt, med Kvolld-Offurs Ydran hreina.

Pu Guds Kieñemañ þeink uñ þad, þar mun uñ siider grenslast ad, hvørneñ og hvad hier kieñder; ad Læresveinum mun lijka spurt, sem liet þitt Gaaleyse villast burt, hupa glogt hvar vid lender.

JEsus vill ad þijn Kieñing klaar, kroptug sie, hrein og opeñskaar, Lijk hvellum Lwdurs Hlioome, Launsmiadran oll og Hræsneñ haal, hindrar Guds Dijrd; eñ viller Saal, straffast med straungum Doome.

Vangiætslañ mijn er margviislig, Milldaste JEsu

JEsu, bid eg þig, Væg þu Veikleika mijnum, Forsoomun eingeñ fañst hiaa þier, Fullnadar Boot þad tel eg mier, Styrk veittu Þioonum þijnum.

Eins er hier eirneñ øllum riett, Alvarleg Kieñing fyrersett, ad Ord Guds Elske og Lære, Trwoeñ Jñvortis efle Gied, Einardleg Jaatning lijka med, Avoxt hid ytra fære.

† Biskups Þioon Eirn i Bræde þo, Blessadañ JEsum Prwstur sloo, svo þad Ritningeñ seiger, Hoogværlegt Andsvar HErrañ gaf: † Honum Saal mijn þad lærdu af, Uñ Sakleyse þitt ei þeiger.

Hvart Samvitskañ Adam sloo, illañ Kiñreda fieck hañ þo, J fyrsta Falle sijnu, þess vegna JEsus Högged hast, blaut ad lijda og rodna fast, allra fyrst i hañs Pijnu.

DRotteñ JEsu eg backa þier, þetta leidstu til Frelsis mier, Eg bid Astieme þijna, Samvitsku Slegeñ Svida-skiæd, aa Saalu miñe þu mijk og græd, burt taktu Blygdun mijna, Amen.



# XI. Psalmur.

## Uñ Afneitan Peturs.

Ton, Dagur i Austre øllu, etc.

†

HUDspialls Historiañ gietur: Gripeñ þa JEsus var, Aller señ utañ Petur, yfergaafu hañ þar, og Læresveirn Eirn Añar,

 aaleingd-

æleingdar geingu blioodt, HErrans Braut Hrygdar saña, harla dymt var af Nοott.

Caiphas Kieñemañi, kuñugur Lærefveirn, Jñgeingur ort med Sañi, Ute stood Petur eirn, Ambaatt upplwka beider, Okiendañ Petrum þa, J Forsal til Lijdsins leider. † Lærdoom hier fiña maa.

Kross Ferle ad fylgia þijnum, fiisir mig JEsu kiær, Vorkyntu Veikleik mijnum, þo verde eg æleingdar fiær, Pa Trw og Pol vill brotna, Preynger ad Naudeñ vønd, Reis þu vid Reireñ brotna, og riett mier þijna Hond.

† Kol-Elld, þvi kallt var næsta, Kveikt hafde Præla Lid, Petur med Sturlan stærsta, stood hiaa þeim Logañ vid, Ambaatt hañ ein Sprogsette, af sier þad heyra liet, Mun þesse Mañ (hun friette) med JEsu af Nazareth?

Hañ neitar hradt ad Bragde, Hræddur vid Ordeñ bist, þañ sig ei þeckia sagde: Pa gool nu Haneñ fyrst, ætlar sier wt ad rijma, Oñur Perna hañ saa, Talar i añañ Tijma, til þeirra er stoodu h'aa

Af N'zareth nu er þesse, Nykomeñ JEsu med, hiñar Gied trw eg þad hvesse, hvor Madur spyrja ried, Ertu eirn af hañs Sveinum? Eñ Petur neita vañ, Sagde med Eide einum: Alldrei þeckta eg hañ.

Pridia Siñ þar til løgdu, Pioonar Caiphas bert, Maalfæred sumer søgdu, segir til hvor þu ert,

ert, Frænde Malchus ried mæla, Munde ea þig ecke sicæ, (giet eg siist Grun mig tæla) J Gardenum JEsu hiæ?

Petur med bliwgu Bragde, brædlega sagde Ney, Soor sig og sært vid lagde, svoddañ Mañ þeckte hañ ei; glogt þegar giordest þetta, gool Hañ eñ Añad Siñ, † Siist mætte Sorgum lietta, Swt flaug i Briostted iñ.

Sæl miin þier Faare forda, freklega voga siist, æn Leyfis DRottens Orda, Ostyrkt er Ho'd ed viist, þykest þu stødugt standa, stilla þiñ Metnad þarft, hvor sier vogar i Vanda, Von er sæ falle snart.

Adur i Alden-Garde, O-hræddur Petur var, Kallnieñsku Huguren harde, hañs sig Auglijste þar, Audvyrd Ambætt hañ hrellde, Osmiog þvi skielfast vañ, Fræ Sañleik sijdañ fellde, Sama þig henda kañ.

Kol-Ellde kveiktum jafnast, Kytlande Verælldar Priæl, Prælar Syndaña safnast, samañ vid Losta-Bæl, fuller med Fals og Villu, fordastu þeirra Glis, Ætijd er med þeim Illu, Einsolldum bræd Slis.

Ambætt med ylgdu Bragde, er þesse Verolld leid, Morgum Mein-Snoru lagde, mioa æ Spottyrdeñ greid, Pyed med Prælum sijnum, Pioona Guds lastad fær, Styrk mig med Mætte þijnum, moot heñe DRotteñ klær!

† Epter Afneitan eina, wt villde Petur gaa,

hugde hañ Braut sier beina, bwna heim Solle
fraa, Pa kom eitt odru verra, Umkringdu Præl-
ar hañ, Afsoor siñ sæla HErra, sier og formæla
vañ. †

Hægt er hvorium ad stofna, J Hættu og Van-
da-Spil, Forvitnis Dælskañ dofna, Dregur
þar margañ til, Ogiæfu Gilldrañ þraungva,
Greip skiott þañ kuñe ad naa, Utkomu Von sieck
aungva, ad þvi i Tijma gaa.

Opt maa af Maale þeckia, Mañeñ hvor hellst
hañ er, sig mun fyrst sialfañ bleckia, saa med Last-
Mælge fer, Goodur af Giede hreinu, Good-Ord-
ur reyneft viist, fullur af Jllu einu, Jllyrdeñ spar-
ar sijdst.

Hryggileg Hrosun hendti, Heilagañ DRott-
eñs Pioon, Syndeñ miog sart hañ spenti, Saal-
ar var bræd Tioon, Hvad mun eg Mattarnaum-
ur, meiga þa standast vid, Vangæteñ, Vesæll og
Aumur, Vielum og Hreckia-Snid?

J Veralldar Vondsku Solle, velkest eg JE-
su hier, Falle þad opt mier olle, Ostodugt Hollded
er, megnar ei moote standa, miin Hreyste Natt-
urlig, Lættu þitt Lioos og Anda, leida og styrkia
mig, Amen.

# XII. Psalmu.

## Um Ydran Peturs.

Ton, Kom Ande Heilage, etc.

Petur

†

PEtur þar sat i Sal, hiaa Sveinum iñe, Tvent hafde Hana Gal, heyrt ad þvi Siñe.

Bween var Prisvar þa, hvert hañ od neita, sier JEsum ſtelañ fraa, Sorg maa þad heita.

DRotteñ vor veik sier vid, viist vm̃ þad gietur, Liwfur med Lijknar Sid, og leit aa Petur.

Strax flaug i Huga hañs, (hvad þo sijdst var de) Lausnarans Ord og Ans, J Allden Garde.

Blygdadest braadt vid þad, Briooft full af Trega, Gieck wt wr greindum Stad, og griet beisklega. †

Siaa þu med sañre Trw, Saal mijn Astkiæra, Hvad framar hefur þu, hier af ad læra:

Haatt galar Haneñ hier, J hvørs Mañs Giede, Drijgdar þa Synder sier, sem Petur ſkide.

Saarlega Samvitſkañ, Sekañ aaklagar, Jñvortis aumañ Mañ, aangrar og nagar.

Fær hañ sig friaalsañ fiist, þo fiñest hrelldur, sem Fugl vid Snwning snijst, þeim Snarañ helldur.

Vijkia þo vilie hañ, fraa Vondſku Hætte, Orka þvi ecke kañ, af eigeñ Mætte.

Upp þo sier ætle braadt, aptur ad standa, fellur hañ þegar þraatt, i þijngre Vanda.

Logmaal Guds hroopar haatt, Hana Gal añad, segir og siiner þraatt, hvad sie hier bañad.

Pad þvijngar, þrwgar med, Pad slær og lemur, Sorgande syndugt Gied, Særer og kremur.

Pad verkar Sorg og Swt, þeim ſeka Mañe, Hiælpar þo eingum wt, wr Synda Bañe.

Hollded þar þriootſkaſt vid, og þyker illa, eykſt æ þañ Synda-Sid, Svik, Hræſne og Villa.

Eñ JEſu Allit ſkijrt, Anda Guds þijder, Sær giører hægt og hijrt, Hiartad uñ ſijder.

Lætur hañ Logmaal biſt, lemia og hræda, epter þad ſer hañ fyrſt, ad Frida og Græda.

Ord JEſu edla ſætt, er hañs Verkfære, hellſt fær þad Hugañ kiætt, Po hrellldur være.

Hañ giefur hreina Trw, Hañ Falleñ reiſer, Hañ Veikañ hreſſer nu, Hañ Bundeñ leyſer.

Ei er i ſiaalfs Valld ſett, ſem nockrer meina, Yferboot, Ydran riett, og Trweñ hreina.

Hende þig Hrøſun bræd, ſem helgañ Petur, under Guds ættu Næd, hvørt ydraſt gietur.

Heimſka er veſta viiſt, vid þad ad dyliaſt, Pu muner þa þier lijſt, vid Prauter ſkiliaſt.

Ef JEſus ad þier ſnijr, med Aſtar Hoote, lijttu þa Huga hijr, hønum æ moote.

Græta ſkallt Glæpe ſært, eñ Gude trwa, Elſka hañs Orded klært, fræ Illu ſnwa.

Onijt er Ydran tæp, ad þvi ſkallt hyggia, Ef þu i giørdum Glæp, gyrneſt ad liggia.

Petur þa formerkt fieck, Fall-Hrøſun ſlijka, wr Synda-Salnum gieck, ſo giør þu lijka.

O JEſu! ad mier ſnw, Aſioonu þiñe, ſiæ þu mig ſærdañ nu, æ Sælu miñe.

Pegar eg hraſa hier, Hvad miøg opt ſañaſt, bend

bend þu i Myskun mier, so meige eg vid kañast.
Opt lijt eg upp til þijn, Augum grꝏtande,
Lijttu þvi liwst til mijn, so leysest Vande, Amen.

# XIII. Psalmur.

## Uñ Caiphas Doom.

Ton, JEsus Guds Son Eingieteñ, etc.

†

HOringiar Presta feingu, Fals-Vitne morg tilsett, Fwslega frañ ad geingu, Fuller med Svik og Prett, Samhlioo-da urdu eige, Uppdicktad margt þo seige, JEsus þa þagde sliett. †

Lær þu ef Lygum mꝏter, Lijfs Reglu Sꝏl mijn hier, Med Forse og Pioost ei þrꝏter, Prꝏlega so til ber, Hoogvær Pogn Heipter stiller, Heimsk-Ordur Sañleik spiller, Opt fyrer sialfum sier,

Hirdt alldrei hvad sem gillder, ad hætta a O-satt Mꝏl, hvort veria edur sækia villder, verdur þad morgum Tꝏl, Muñur sꝏ laungum lijgur, frꝏ Lucku og Blessan hnijgur, hañ deyder sijna Sꝏl.

Sañleiks Vitne þo seige, sekañ mig Gude hiꝏ, Ottast þarf eg nu eige, Assokun hef eg þa, Lijwg-Votta Lijge megna, Leid JEsus miña vegna, Klogun mig keypte frꝏ.

Caiphas

† Caiphas friette fyrstur, Falskfega HErrañ ad, sialfur hvort sie hañ Christur? Og so eñ framar kvad, vid sañañ Gud eg þig sære, ef Sonur hañs ertu hiñ kiære; Seigdu oss satt um̃ þad.

JEsus jatar ad Stundu, Jafnframt þvi so nam tia, Son Mañsins sia þeir mundu, Sitia þadañ i frá, til Kraptarens hægre Handar, og hier epter komanda, skiærasta Skye á.

Kieñemañ reif sijn Klæde, kvad slijkt Gudlastan er, Adspyr med Ogna Bræde, um̃ þad hvad halldeð þier? Allt Rauded under tekur, er hañ vijst Dauda sekur, soddañ sampyckium vier. †

JEsus ei ansa hyrdte, aidur þa loged var, Guds Nafn þo giarnañ virdte, gaf þvi Caiphæ Svar. Lygd Heims þo lijted sæter, Lausnarans Dæmis giæter, Leita Guds Lofdijrdar.

Hygg ad og herm hid saña, hvonær sem til er reynt, Hrædst ei Hootaner Maña, Hallt þiñe Jatning beint, Giæt vel ad geimer þetta, Guds Ord og Trwna rietta, medkiendu liooft og leint.

Caiphæ Logsogn leida, Lært hafa marger eñ, Hvad sem Hofdingiar beida, Hiner ályktа señ, Vinskap sig villa láta, Viliande raungu játa, fordest þad froomer Meñ.

Sw er mijn Huggun sama, sem þijn var JEsu miñ, Krossteñ þa ad vill ama, Offookn og Hormung stiñ, hia þiñe hægre Hende, hier þo ad Lijfid ende, Fagnadar Nægd eg fiñ.

Hier til Gudlostun lagde, Liwgande Kieñemañ,

mañ, Daudasekañ þig sagde. Sañlega Urskurd
þañ, ætte eg ad heyra helldur, hart med riettu
Sakfelldur, viist eg noog til þess vañ.

Andlegt Walld Einum Roome, wrskurdar
Daudañ þier, DRotteñ i Rædar-Doome, dæ-
mer þvi Liised mier. Packa eg Elsku þiñe, þu keyp-
ter Sææla miñe, Friiun og Frelse hier, Amen.

# XIV. Psalmur

## Uñ Pioonaña Spott vid Christum.

Ton, Allsagurt Liovs oss byrtest bræatt, etc.

†

Epter þañ Doom sem allra fyrst, Andleg-
er dæmdu uñ HErrañ Christ, hafa þeir
þviad þa var Noott, Þegar til Hviildar
geinged skioott.

DRotteñ vor epter þreyttur þar, Prælum til
Giætslu feingeñ var, Giorde ad hönum Gis og
Daar, Gudlausra Maña Flockur þrær.

Hædung, Spottyrde, Hroop og Briixl, hvor
liet med ødrum gæanga æ Wiixl, Hræktu og
sloou HErrañ þar, hañ þo a medañ bundeñ var. †

Siæ þu og skoda Sææla miin, Saklausa
Lambsins beisku Piin, Hugsa vandlega uñ þad
allt, af þessu hvad þu læra skallt.

Hañ sem ad Nætur-Hviild og Roo, hvorre
Skiepnu

Skiepnu af Mÿskun bioo, J sine Ogna Eymda Stærd, aunavañ Kostfieck a neirne Værd.

Hvijldar Roott marga hef eg þaad, HErra JEsu, af þiñe Raad, Kvol þijn Eymdum mig keypte fra, kañast eg nu vid Giæsku þa.

Nær sem eg reyne Sorg og Soott, seinast ad kiemur Daudans Roott, Nætur-Kvala sim neyddu þig, nioota lattu þa JEsu mig!

Samvitsku-Sløg og Satans Haad, sefe JEsu þijn blessud Raad, Ofbod Daudans og Andlats-Pijn, aftake og mijke Giæskañ þijn!

Margur (og vijst þad maklegt er) miog þessum Skalkum formæler, Po fiñast nockrer hier i Heim, ad Hegdun allre lijker þeim.

Hvad giøra þeir sem hier a Jørd, hafa ad Spotte DRottens Ord, Lifa i Glæpum lioost til Sans, Lasta og Forsima Pioona hañs?

Sa sem Guds Raad og Sañleikañ, sier, þecker, veit og skynia kañ, Kukl og Fiølkinge kyñer sier, Caiphas Prælum verre er.

Soneñ Guds ecke þecktu þeir, Pvi syndga hiner langtum meir, sem kallast vilia Christner best, Christum þo lasta allra mest.

Hræsiarar þeir sem Hrecke og Synd, hylia þo under Froomleiks Mynd, Lijkiast þessum sem Lausnarañ, lomdu blindande og spiodu hañ.

Hvorium sem Spott og Hædne er kiær, hañ geingur þessum Selskap nær, Forsmaan Gudrækins Fatæks Mañs, Fyrerlitning er Skaparans.

O! Vesæll Madur, ad þvi gaa, epter mun koma Tijme saa, sama hvad nidur sæder hier, sialfur aan Efa upp þu skier.

Ef hier a Jord er Hroop og Haad, Hædne og Gudlast nidursaad, uppskored verdur eilijft Spie, Agg og Forsmaan i Helvijte.

Ætla þu ecke aumur Mañ, affomast mune Strafflaust hañ, sem Soneñ hefur hier hædt og spiad, horfe Fadereñ uppaa þad.

Hvad JEsus nu uñ Nætur-Skeid, Nauds-staddur hier af Moñum leid, Ogudlegur uñ Ei-lijfd þa, med illum Dioflum lijda maa.

Okiendum hier, þo aumur sie, alldrei til-legg þu Haad nie Spie, Þu veitst ei hvorn þu hitter þar, helldur eñ þesser Gydingar.

Sialfañ slær mig nu Hiartad hardt, hef eg aan Efa mikeñ Part, af soddañ Illsku aastundad, andmiwklega eg medgeing þad.

Saad hef eg nidur Synda-Root, Svijvird-ing mijn er morg og lioot, Uppskieru Tijmañ Ott-ast eg, aangrast þvi Saaleñ næsta miog.

HErra miñ JEsu Hormung þijn, Huggun er bæde og Lækning mijn, Sakleyse vijst þu sæder hier, Saluñar Avoxt gafstu mier.

Blood-Dropar þijner blessad Saad, Ber þañ Avoxt sem heiter Naad, Þañ sama Gud mier sialfur gaf, Saaluhiaalp mijn þar sprettur af.

Hæddur varstu til Heidurs mier, Hoga þijn og Slög mijn Lækning er, Alldrei mun Dofull eiga

eiga Valld, at mig ad leggia Synda Gialld.

Eñ þier til Heidurs aptur at moot, ydrast vil eg og gióra Boot, Holldsꝰ Vilia giarnañ hepta miñ, Hiaalpe mier JEsu Kraptur þiñ, Amen.



# XV. Psalmur.

## Uñ Raadstefnu Prestaña yfer Christo.

Ton, Christs er Koma fyrer Hondum, etc.



MJog aarla uppe voru, Olldungar Juda señ, so til Samfundar fooru, fyrster þo Kieñe-Meñ, J Raadslag lietu leidast, lijkar þad ollum vel, Hvornen þeir giæte greidast, Guds Syne komed i Hel.

Helmtu med Heiptar-Lundu, HErrañ vorn til sijn braadt, Ordsok þvi engva fundu, aller señ mælltu haatt, Seig oss ef ertu Christur, Einaste Son Guds sa, Grædareñ Giæsku lystur, gaf Andsvar þar uppa.

Po ydur eg þad seige, ecke samt trwe þier Andsvared mier og eige, ef eg spyr nockurs hier, Mañs sins Son siaaed sitia, señ hia Guds hægre Hlid, J Skye mun eirneñ vitia, aptur med Dijrdar Sid.

Ertu Guds Son? þeir sogdu, svarade DRotteñ, Jaa, Diarfer þañ Doom at logdu, Dauda-Madur er sa, Uppstoodu strax ad Stundu, Strijd heim

þeim i Hiarta brañ, Frelsarañ Fiotrum bundu, Færdu Pilato hañ. †

Hier mattu Saal mijn saña, so geingur þad til vijst, Astundan Allvyrkiaña, Umhyggiu vantar sijst, ærla þeir Blinde bregda, binda fast oll sijn Raad, Klooklega Hreckium hegda, hvør sem þess feinge gæd.

Eñ þu sem ætt ad vera, wtvaleñ DRotteñs Pioon, Verk hañs og Vilia giøra, og varast þitt Saalar Tioon, Andvara aungvañ hefur, Umhyggiulijtell siest, vid Glis Heims Gælaus sefur, Gud næde soddañ Brest.

Marger upp ærla rijsa, Ei gieta sofed vært, epter Aud Heimsins hnijsa, Hollds Gagned er þeim kiært, Saaleñ i Briooste sofnud, sijnest ad mestu daud, til allra Dygda dofnud, sem DRotteñ hellst þo baud.

Forsioonar Verkmeñ Vijser, Vijngarde DRotteñs i, Fyrst þa Dags Lioomeñ lijser, lxwst bid eg gæte ad þvi, um sitt Embætte hygge, ærla giørd Bæneñ sie, Idiulauser ei ligge, I Lijkamans Giælijfe.

Haturs Meñ HErrans vaka, hugsande ad giøra Tioon, epter þvi ættu ad taka, ef ertu hañs Trygda Pioon, vilier þu vid þeim sporna, og varast þeirra Hæd, ærla Dags alla Morgna, vid Ord Guds halltu Raad.

Peink nu i þijnu Hiarta, þar næst i Añañ Stad, hvar um HErrañ ried kvarta, hyggia mattu

þar ad, Ordum hañs ecke treystu, Illgiarner Juar þeir, wr Spurning øngre leystu, Æ þvi vestnudu meir.

Hvor tewer nu hart þo hoote, HErrañ Syndugum Lijd? All-fæster iña ái moote, Ydrunar Svoreñ blijd, Hyrtingar hiaalpa ecke, Heimur vestnande fer, Blindleikeñ trwe eg oss blecke, bwed Straff naalægt er.

Vijst er eg veikur ad trwa, veitstu þad JEsu best, fraa Syndum seirn ad snwa, soddañ mig aangrar mest, Po framast þad eg megna, þijnum Ordum eg vil, Treysta og giarnañ giegna, gief þu mier Naad þar til.

Par næst ad þessu giæter, Pad er og Lærdooms Grein, ef þu Oriette mæter, Afsokun duger ei nein, hafdu þa Bidlund hijra, HErrañ mun til þijn siaa, Laat Polgieds Dæmed dijra, DRotteñs þig hugga þa.

Mier er sem i Eyrum hlioome, Urskurdur DRotteñs saa, aarla a Effsta Doome, upp þegar Dauder staa, Affsokun ei mun stoda, Andsvor nie Spurningar, saa stendur vijst i Voda, sem verdur sekur þar.

Hier er nu Kostur ad heyra, HErrañ talande i Naad, Opne JEsus mitt Eyra, so ad þvi feinae gaad; Hoogvær vors Bata bijdur, blessadur þessa Tijd, Añars Heims er hañ strijdur, øllum Forherdtum Lijd.

Arla Urskurdeñ løgdu, a þig Gydingar þo,

JEsu

JEsu, og sekañ sogdu, selldu þig Pilato, Arla ar Efsta Dege, Afsokun gylldersw, til Dauda eg dœmest eige, DRottenñ þess miñest þu.

Arla Dags uppvaknadur, Æ tijd eg miñest þijn, JEsu miñ Hialpar hradur, hvxa þu æ til mijn, Arla a Efsta Doome, Afsokun vertu n.ier, Minstu þa Frelsareñ froome, hvad fyrer mig leidstu hier, Amen.

# XVI. Psalmur.

## Uñ Judasar Ydran.

Ton, Konung David sem kiende, etc.

†.

JUdas i Gyrndar-Grœde, af Gydingunum fyrst, Priœtijge Peninga þœde, þvi sveik hañ HErrañ Christ, Licost þegar lijta vañ, DRotteñ var nu til Dauda, Dœmdur og þwngra Nauda, ydradest epter hañ.

Greidt i Mysterêd geingur, greiner so Ritning frá, vm Silfred siñte ei leingur, señ vill þad Prestum fa, sagde med sárum Mood, O! hvad eg giorde illa, þa yfer mig kom sw Villa, ad sveik eg Saklaust Blood.

Lidsemd Prestarner logdu, litla sem Von var ad, Hardlynder honum sogdu: Hvad eigum vier med þad? Þu mátt eirn siá uñ þig, Silfrenu ar Boolsed grytte, gieck þadañ, miog sier flijtte,

 og

og heingde sialfan sig.

Radsteinu Herrar hielldu, hættu þar seinast vid, fyrer Akur sialfer selldu, Silfred Leirkiera Smid, ædur sagt um þad var, J Spædoems Sognum sõnum, sa var Vegferdar Mõnum, giefen til Greftrunar. †

Sia hier hvad illan Enda, Otrygd og Svikẽ fær, Judasar Lijkar lenda, Leiks Broodur sijnum hiæ, Andskoten Illsku slær, en hefur Snoru snwna, snogglega þeim tilbwna, sem fara med Fals og Dar.

Otrw sin eigen Herra, ætijd um Halsen sloo, eingen fieck af þvi verra, en sa Meinlausum bioo, Forræde, Fals og Viel, Judas þvi Heinging hendte, han Folskum til sijn bendte, Eins og Achitophel.

Fiegyrnden Judam fellde, Fyrst var hans Adtekt sw, Guds Son Gydingum sellde, gleymde þvi Æru og Trw, So til um sijder gieck, kastade keyptum Aude, þa kvalde Sorg og Daude, Huggun alls aungva fieck.

Underroot allra Lasta, Agyrnden kollud er, Froomleika fra sier kasta, Fiar-ploegs Men ægiarner, sem freklega elska Fied, Aude med Okre safna, Andlegre Blessan hafna, En setia Saal i Ved.

Añad hvorter i Vonum, Auduren fagur nu, hafnar þier, ellegar honum, hriagur burt kastar þu, Pa Dauden þreinger ad, Agyrnden Otæpt

svelger,

svelger, af þvi Saalena velger, J kolldum Kvala Stad.

Falsi og Fiegyrnd raungri, forda þier Saal miin bliid, so mæter ei Ogn nie Angri, þa ad ser Dauðans Tijd, Bird lijtils Veralldar Ploog, hver sem sier'lynda lætur, þad lienar DRottenñ mætur, Saa hefur alls Nægta noog.

Opt JEsus aadur hafde, Amiñing Judæ giort, Hreckviisiñ Hiartad vafde, hañ hiellt þad einskis verdt, Nu kom þar eirneñ ad, Tilsøgn hatade hreina, Huggun fieck þvi ei neina, Varastu Vijte þad.

Eñ hvad framleidde hañ illa, aadur Lijferne sitt, Þesse þo var hañs Villa, verre eñ allt aññad hitt, ad hañ Orvænting med, Saal og Lijf sette i Vanda, Synd aa moot Heilögum Anda, helld eg hier hafi skied.

J DRottne ef villtu deya, DRottne þa lifdu hier, til Jlls laat ei þig teygia, Ord Guds sie kiærast þier, Sæll er saa so vid biist, Eñ ef þig O-fall hender, aptur i Tijma vender, undañ drag Ydrau siist.

Brot þijn skallt bliwgur jaata, eñ bid þo Gud um Naad, af Hiarta hryggur graata, eñ heilnæm þiggia Raad, umfram allt þeynktu þo, Son Guds bar þijnar Synder, og so þu Myskun finder, Saklaus fyrer Sekañ doo.

DRottenñ laat mig ei dyliast, diarflega Synder vid, Þo hier um Stund meige hyliast, HErra trwr

þess eg bid, þa Heime fer eg fraa, Orvænting ei mier grande, Ord þitt og Sañleiks Ande, Hiartad mitt hugge þa, Amen.

## XVII. Psalmur.

### Um̃ Leyrpottarans Akur.

Ton, Fader aa Himna Hæd, etc.

†

SO sem fyr sagt er fraa, Silfur-Peninga þaa, hvorier loks Judam hrelldu, Høfud-Presta-ner felldu.

Og keyptu eirn til sams, Akur Pottmakarans, Þar maa fullt Frelsi hafa, Framande Meñ ad grafa. †

Þar finst ein Þijding sijn, þess giættu Saala mijn, af Guds aasettu Raade, um̃ þad Zacharias spaade

Lijkest Leyrkiera Smid, Lijkusamur ORotteñ vid, Sem fyr Esajas sagde, og siaalfur þad riett wtlagde.

Af Leyr med Lijfsins Krapt, liet hañ Mañkyned skapt, Þrein Kier til Heidurs setur, hin oñur lægram tur.

ORotteñ eirn Akur aa, Er honum falur saa, miñstu hañ Myskun heiter, Mæddum Lijd Huggnu veiter.

JEsus eirn er saa Mañ, Sem Akureñ keypte hañ,

þañ, Eñ hañs Blood Dropar blijder, Borgunar Gialldeð þijder.

Framande Foolked þad, sem fieck ei neirn Hvijldar Stad, erum vier Sorgum setner, af Syndugu Edle gietner.

Illkuñar Edled vort, Utlenda hefur giort, oss, fraa eilijfre Glede, J Adams Falle þad skiede.

Saaleñ i Utlegd er, Æ medañ dvelst hun hier, J Holldsins Hreise naumu, hallden Faangelse aumu.

Daudeñ med dapre Swt, Dregur uñ sijder wt, hana: Pa Hreisid brotnar, Hollded i Jordu rotnar.

Eins og wtkastad Hræ (ef eg riett skyniad fæ) Hiaalparlaus Saal maa heita, Hvijldar kañ ei sier leita.

Hættu og Hormung þa, HErrañ miñ JEsus sa, Aund vora af Ast og Millde, wr Utlegd kaupa villde.

Faadereñ falt þad liet, Fridarstad Saalum hiet, Ef Sonureñ Gialld þad greidde, sem Guds Riettlæted beidde.

Opnade Siooðeñ siñ, Sonur Guds JEsus miñ, Hwdstrijktur kvaleñ krijndur, a Krosse til Dauda pijndur.

Blood Dropar dundu þar, Dijrasta Gialld þad var, Keypptañ Akur þvi eigum, Ohrædder deyia meigum.

Hier þegar verdur Holld, Huled i Jardar-

Molld, Sæleñ Hrygdarlauſt hvijler, heñe Guds Myſkun ſkijler.

Eñ þu ſkallt ad þvi gæ, Akurſins Greptran þa, Aungver utañ þeir feingu, J Jeruſalem geingu.

Chriſtneñ Guds hier uñ Heim, heiter Jeruſalem, J hana iñkomaſt hlijtur, hvor ſem Myſkunar nijtur.

J heñe hvør eirn ſæ er, at JEſum trwer hier, Skijrdur og alla Vega, Ydran giører Daglega.

Okviideñ er eg nu, af þvi eg hef þa Trw, Myſkun Guds Sælu mijna, mun taka i Voktun ſijna.

Hvorneñ ſem Hollded fer, hier hegar Lijfed þver, JEſu i Umſioon þiñe, Ohætter Sælu miñe.

J g loſa Lauſnareñ þig, ſem leyſter wr Utlegd mig, Hviild næ eg Nædar ſpakre, nu i Myſkunar Akre.

Pu gafſt mier Akureñ þiñ, Pier gief eg aptur miñ, Aſt þijna æ eg rijka, Eig þu mitt Hiartad lijka.

Eg gief og allañ þier, Æ medañ toore eg hier, Avoxteñ Jdiu miñar, J Akre Chriſtne þiñar.

Eins bid eg aumur Præll, ad uñer þu JEſu ſæll, Lidnum Lijkama mijnum, Legſtad i Akre þijnum.

Hveite Korn þeckktu þitt, Pa upprijs Hollded mitt, J Bindine Barna þiña, Bleſſan lættu mig ſiña, Amen.

* * * * * *
* * *

# XVIII. Psalmur.

## Umm Aklogun Gydinga fyrer Pilato.

Ton, Sæler eru þeim siálfur Gud, etc.

†

HUrla sem glögt eg greina vann, med Guds Son bundenn fara, Prestarner, so ad pijnedest hann, til Pilatum Landsdoomara, J Pijng-Hws inn, þad sama Sinn, sagt er þo einginn kiæme, so ecke meir, saurgudust þeir, † Siaa hier Hræsnennar Dæme.

Jnngaang umm Hws-Dyr Heidingians, hielldu þeir Synd bannada, Enn saurgast aa Bloode Saklauss Manns, sijndest þeim öngvann Skada, Heims Bornum hier, Ovirding er, Aumstoddum Hiaalp ad veita, Guds Ords Forackt, Agyrnd og Prackt, Eingenn Misgiord skal heita.

† Pilatus sem þad formerkt fieck, fyrst ei þeim Metnad sætte, aan Dvalar siaalfur wt þvi gieck, Embættis Skylldu giætte, Sakargypt þa, vill fulla faa, Frammborna af þeirra Munne, Daarydenn sliot, Drambseme moot, Doomarenn finna kunne. †

Laat þier ei vera Asmaan ad, ef þu villt froomur heita, af Pilato liooft ad læra þad, sem Losleegter epter ad breyta, Rannglæted hanns, þess heidna Manns, halltt þier Mijnkun Tvofallda: Þeim mid-

ur ser, eñ honum hier, Hvor vill hañ Christeñ hallda?

Alited stoort og Hesdar Hatt, hrædast skyllder þu ecke, Sañleikans giæta ætijd att eingeñ Kiaso Mal þig blecke, Æru-Syrnd lioot, Hofmoodug Hoot; hæfer sijst Yfer-Moñum, Dramblætum þar, þu gief Andsvar, þo byggt a Rokum so:um.

† Olldungar Juda allra fyrst, uppbaaru Sok Prefallda: Foolkenu þesse fraasnijr vijst. Fyrer-bijdur ad giallda, Keysarans Skatt, þad segium vier satt. Sialfur vill Kongur heita, og Christur sa, sem koma a, Kvittun og Frid ad veita. †

Hier koma fram þau riettu Rok, Rædu og Painka miña, Pier JEsu giesiñ var Prefolld Sok, þad kañ eg glogt ad fiña, Prefalldleg Sekt, mig biarde frekt, Par um eg klagast mætte, Prefallda Stygd, og þwnga Lygd, þu leidst med sogdum Hætte.

Fra snwed Gude allt mitt er, Edled og Lijf framnéyta, Odrum þvi gief eg opt af mier, Jll Dæme so ad breita, Eñ hier a moot, med Elsku-Hoot, Oll Guds Born riett þvi trwa, fra Bolvan, Deyd, Diosle og Neyd, DRotteñ ried Lijdnum snwa.

Gude ætte eg ad greida frij, Gialld, Hlijdne og Packar-Skylldur, Ranglega hef eg hallded þvi, hondlad sem Præll Ogylldur, Audsveipneñ þijn, fyrer ollum skijn, Alstemdar HErrañ kiære, Pu baudst, Giefed, (Gafst sialfur med) hvad Guds

og

og Keysarans være.

Saũlega hef eg brokad mier, hærra eñ vera skyllde, Bod og Skipan mijns HErra hier, halld-ed i miñsta Gyllde, Kongdoom i Heim, og Heid-re þiem, hafnader þu og slijder, Hæatigneñ þijn, æ Himnum skijn, hun mun bortast uñ sijder.

Nægdur varstu fyrer rænga Sök, Riettlæate JEsu millde, Uppæ þad öll mijn Jllsku-Rök, afplæanud verda skyllde, Aklogun su, sem þelder þu, Þess b'd eg HErrañ froome, sie mitt Forsvar, þa fiñst eg þar, fyrer þeim stræanga Doome. Amen

# XIX. Psalmur.

## Jæatning Christi fyrer Pilato.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu, etc.

Vydingar hösdu af Hatre fyrst, hardlega klagad JEsum Christ, sem æadur sagt er fræa, Landsdoomareñ giörde ad gæa, glögt hvad þijdde Framburdur sæa.

Aklogun Fyrsta Andleg var, uñ þad Pilatus siñte ei par, Öñur uñ Skylldu-Skatt, hañ visse vel þeir sögdu ei satt, Soddañ Mæalum þeyands hratt.

Eñ sem þeir nefndu Kongeñ Christ, kom hon-um þa til Hugar fyrst, hvad æadur heyrde og nam, af Judum mællt uñ Messiam, ef mætte skie þad kiæme nu frañ. Pilati

Pilati Sinne i sumum finnst, sem umm Guds Dijrkun huxa minnst, Hofdinglum hræsna tijdt, Undersata Frelsed frijdt, Fiærploogs-giarner rækia nu lijtt.

† Hyrdstiooren spurde HErran þa, hvort hann sie Juda Kongur sa? Enn JEsus aptur tier, Talar þu so af sialfum þier, Eda sogdu adrer þvilijkt af mier?

Pa vard Pilati Peled kallt, Pig hatar, sagde hann, Foolked allt: Hvad Jllt hefur þu giort? Aptur JEsus ansar bert, Er þad næsta Peinkingar verdt.

Mitt Rijke er ecke hiedann af Heim, hardt munde annars moote þeim, strijda minn Maktar-Her, sem nu mig selldu i Nauder hier, so nædu ecke Gydingar mier.

Pilatus aptur ansa vann, Ertu þo Kongur? sagde honn: Jatade JEsus þvi, Hiingad barst eg Heimenn i, Ad herma skyllde eg Sannleikann frij.

Hvor af Sannleiknum sialfur er, sa mijna Roddu heyrer hier, Hædnis Svor hinn til fann: Hvad er Sannleikur sagde hann? So gieck burt med Urskurdenn þann. †

Hier mattu Saal mijn heyra fyrst, HErrann JEsus er Kongur vijst, Po ecke ad Heimsins Hatt, soddann vel þu athuga att, þad eykur Glede Hiartanu bratt.

Kongs-Tign þijn JEsu eilijf er, aller þiggia sijn Volld af þier, Hofdingiar hier umm Heim, þu lienar,

Lienar, Giefur, Laanar þeim, Londen̄, Rijke, Met-
ord og Seim.

Fyrer þin̄ Krapt og Frelsis Hond, Forsvara
Kongar Rijke og Lond, sem er þeim underlagt, en̄
moote Diosle og Daudans Makt, duger eingen̄
Hofdingia-Peackt.

Nu hefur sigrad Synd og Deyd, Siaalfan̄
Dioful og Vijtis-Neyd, hvader eitt herlegt Str-
ijd, Allan̄ so þin̄ leyster Lijd, Lof sie þier um̄ eilijfa
Tijd.

Andlegt þitt Rijke og eilijft er, Ord San̄leiks
þvi riett stioornar hier, Þin̄ Velldis-Vondur saa,
Ovine slær mier alla fraa, J þeim Krapte sigra
eg þau.

En̄ fyrst þitt Rijke Andlegt var, um̄ þad Heim-
uren̄ sin̄te ei par, han̄ san̄ ei Hofmood sin̄, hiaa þier
JEsu HErra min̄, hatade allan̄ Goodvilia þin̄.

Undrast þvi Saal mijn ecke þarft, þo Adkast
Veralldar lijder margt, Þar um̄ þier þeinkia ber,
Ertu nu i Utlegd hier, An̄ars Heims þitt Fodur-
Land er.

San̄leika Kongsins San̄leiks Raust, saa þarf
ad elska Hræsnislaust, sem er han̄s Under-Man̄,
Þvi Slægd og Lijge hatar han̄, Hreinhiortudum
Myskunar an̄.

Ef þu mijn Saal i Gude glødd, gyrnest ad heyr-
ra Kongsins Rodd, Giættu þa giørla hier, hvad
boda DRottens Þioonar þier, Þeirra Kien̄ing
Rausten̄ han̄s er.

Ran̄-

Rañsaka Saal mijn Ord bad ært, ad verdur svart, hvad hefur þu giort? Pa HErrañ helldur D om, hiælpar aungvum Hræsneñ toom, hrein sie Trw i Verkunum froom.

Eñ Sokum þess þu ei Saklaus ert, sialfur spyr þig, hvad hefur þu giort, um hvorn umliden Dag? Yorun gior og græt þiñ Hag, Guds Son bid þad færa i Lag.

Allt hef eg JEsu illa giort, Allt þad ad bæta þu komeñ ert, um allt þvi eg kvittur er, allt mitt Lijf skal þioona þier, Par til bid eg hiælpa þu mier,
A M E N.

# XX Psalmur.

## Um Aklogun Gydinga fyrer Pilato.

Ton, Ovinañleg Borg er vor Gud, etc.

Pilatus hafde proofad nu, Pijslar-Sok JEsu giefna, Klien virdtest honum Kongs Tign sw, Pa Christur Sañleik ried nefna, Heims Sañleik heidra lietst, hædde Guds Sañleik mest, Sañindeñ Elska ber, Ord DRottens lættu þier, kiærast þo allra Efna.

† Jafn-Odt þa gæanga Jarleñ ried, til Juda wt ad Bragde, aungva Sok bessum Mañe med, mæa eg fiña hañ sagde, Gydingar helldur hardt, HErrañ klogudu um margt, med Æde, Ogn og Dramb; Eins riett sem Meinlaust Lamb, Lausn-

Lausnaren liwsur þagde.

Hañ hefur uppæst Lijdeñ Lands, leinge miog vijda kiende, fra Galilæa og so til Sañs, um̃ sijd-er allt hijngad vende, Pilatus hugde hier, Hrin-da þeim Vanda af sier, Herodes hafde þvi, Hird-stioorn þeim Parte i, Til hañs þvi HErrañ sen-de. †

Fyrer mig JEsu þolder þu, Piauning og bei-ska Pijnu, Hiartad gledst þvi eg heyre nu, hroos-ad Sakleyse þijnu, Syndeñ laa saart a mier, Sok sañst eingeñ hia þier, So er Sakleyse þitt, Sañ-lega orded mitt, vid Maalesne tookstu mijnu.

Logmaal DRottens þa Hefndum hardt, hoot-ar mier epter Vonum, aptur miñ JEsus ansar snart, Eingeñ Sok fiñst med honum, Sakleyse mitt til Sañs, seige eg nu orded hañs, Eingeñ A-klogun flioot, Orka skal neitt a moot, mijnum Pol lyndis Pioonum.

Onytiu Hial og Mælgeñ mijn, mier til Falls koma ætte, Eñ JEsu blessud Pogneñ þijn, Pad allt fyrer mig bætte, Skyllda mijn aptur er, ept-er ad breyta þier, Peigiande i þijdre Trw, þola nær lijd eg nu, Porf være þess eg giætte.

Pilatus meinte Mañvits Slægd, munde O-brygdul standa, Koma vill þvi med Kiænsku Næ-gd, Kong Herode i Vanda, Kuña þa Adferd eñ, allmarger Veralldar Meñ. Vid Gud og giæt þijn vel, Giarn er Heimur a Viel, Saalausum Svikeñ granda.

Kross-

Krofs Gangañ JEsu þesse þiin, þar fyrer Eislaust skiede, so hvijlast mætte Saaleñ mijn, sætt í Eilijfre Glede, Embættis Omak laangt, Opt þo mer eriñest straangt, til Lofs og Pocknunar hier, það vil eg giarnañ hier, Lijda med liwfu Glede, Amen.

# XXI. Psalmur.

## Uñ Herodis Forvitne og hvijta Klæðeð.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg a, etc.

†

DEgar Herodes HErrañ sa, hañ vard miøg gladur næsta, af honum heyrt haf de, Og hellst vill sa, Hañs Asijnd lijta glæsta, Forviteñ mørgu friette að, Fiisn Holldsins Kapp a lagde, Med bistu Bragde, JEsus took ecke under það, vid øllum Spurningum þagde. †

Marger fiñast eñ hier uñ Heim, Herodis Lijkar rietter, Guds Ord er Skiemt og Gaman þeim, sem Glens edur nijar Frietter, Forvitneñ Holldsens hniisser þratt, J HErrans Leyndardooma, med Fiisn ei frooma, aumre Skynseme ætla ofhaatt, alldrei til Skilnings koma.

Mañvits Diwp findne og Menta Glis, marger þa vilia reyna, Að Orde DRotteñs þeir giora Gis Gaman Loslegt það meina, Varastu Saal mijn Vijteñ reynd, vird þu i hæðsta Gillde, Pa miklu

miklu Mildde, Alvarlega med goodre Greind, Gud vid þig tala villde.

Gud giorer ecke ad Gamne sier, Glæpamoñum ad hoeta, Kallsmælge honum og eingeñ er, ad þu meiger Myskun hlioota, Audmiwklega med allre Gæt, ættu uñ slijkt ad ræda, og fleire fræda, eñ af þier heyrast alldrei læt, Ord DRotteñs skuler þu hæda.

Heyre eg uñ þig miñ HErra rædt, i Hiælpædis Orde þijnu, Allt sijnest mier þa bwed og bætt, Boled i Hiarta mijnu, i Sacramentenu sie eg þig, so sem i Lijking skiærre, med Nææd mier nærre, O! hvad gledur sw Asijnd mig, Eingeñ sijnst Huggun stærre.

Herodis Fijsn var Hollðleg sw, hañ ried Forvitne giña, eñ mijn Sæla af Ast og Trw, Andvarpar þig ad siña, Lofsamleg er sw Lucku-Stund, þa lijt eg þig HErrañ þijde, i þiñe Prijde, gief mier Lofsins þañ Fagnadar Fund, Þo fyrst uñ Siñ hier bijde.

Pad kieñer HErrans Þogneñ froom, Par næst i Añañ Mæata, Hañ vill ei sijnum Helgedoom, fyrer Hunda kasta lata, DRotteñ forsmæer Drambsamt Gied, Diarflega margs þo freiste, og frekt sier treyste, Hug-stolltuñ nidur hrinda ried, Hogværa Sæl vidreiste.

† Herodes og hañs Hof-Foolk lijtt, uñ HErrañ ackta villde, Færde hañ i eitt Fated hvijtt, Forsmæan þad heita skyllde, Til Pilatum sijdañ send-

 ur.

ur þar, so komst i Fridar=Stille, Offtopeñ ille, Drambsom Ofundeñ ædur bar, Ovinskap þeirra a mille. †

Hvijtt Klæded giorde Hædung þier, HErra miñ JEsu sæte, Dijrdar=Skrwda so skeinkter mier, Skijnande Guds Riettlæte, Sakleisis Merke þetta þitt, þijns Fødurs Giæskañ hreina, Pa þeckte alleina, hañ sier og proofar Hiartad mitt, hvad sem Jllgiarner meina.

Heilagra Saalna Hoopur skiær, a Himnum med Skijrkun frijda til Heidurs þier JEsu HErra kiær, hvijtum Klædum sig skrijda, Eins hier a Jordu upp frá þvi, Eflaust i Miñing slijka, med Røgsemd rijka, byrtust Snioo=hvijtum Bwning i, Blessader Einglar lijka.

Veittu JEsu þa Mykun mier, Meinleysis skriiddur Klæde, Pioone eg Taal=laust med Trygdum þier, J Trw, Von og Poleñmæde, Riettlætis Skrwda Skarted þitt, skijne a Saalu miñe, þo Lijf hier liñe, Eins lættu Hollded eirneñ mitt, Afklædast Prioolsku siñe.

Forlijkast giordu Fiandmeñ Tveir, þa foorstu þar JEsu mille, Eg veit mier gafstu mykla meir, Mykun og Fridar=Stille, Hiá Gude Fødur so til sañs, siest eingeñ Reide leingur, nie Stigdar=Streingur, Daglega mille mijn og hañs, miñ trwr Frelsare geingur.

Hvar sem Ofridur hreiser sier, Af Holldsins Veikleik brædum, mille Christeña Maña hier, moote

moote Guds Vilia og Rꝏdum, Gacktu þar JEsu mille mest, med þijnum Fridar Anda, og varna Vanda, Hiꝏlpa þu so vier hugsum best, J hreinum Kiærleik ad standa, Amen.



# XXII. Psalmur.

## Um̃ Krossfestingar Hroop yfer Christo.

Ton, Fader vor sem ꝏ Himnum ert, etc.

†.

NAꝏ Herode þa Christur kom, Kallar Pilatus sniollum Room, Gydinga Lijd og lioos gaf Rok, Lausnaren̄ hefde aungva Sok, Samþyckur være og sier til þess, siꝏlfur Kongnren̄ Herodes. †

San̄lega DRotten̄ Sakleysed, Sier, Elskar, bæde og styrker med, Hiarta og Mun̄ur hvørs eins Man̄s, hlijtur ad þioona Vilia han̄s, Mꝏl Efned gott fær goodan̄ Room, Giæt þess mijn Sꝏl og vert þu froom.

† Sidur Gydinga sꝏ var þa, Saka-Man̄ Eirn þeir skylldu fꝏ, um̃ Pꝏska Tijman̄ frꝏ Pijslum frij, Pilatus ꝏtte ad giegna þvi, J Frelsis Min̄ing wr Egypto: † Alldrei baud Drotten̄ soddan̄ þo.

Siꝏ til mijn Sꝏl ad Sidvanen̄, sijst meige villa Huga þin̄, fordast honum ad fylgia hier, frꝏ-

mar eñ Guds Ord lesser hier, Good Mein'ng aunava giorer Stod, Gyllda skal meira DRott-eñs Bod.

† Pilatus Judum sagde so, siaæd nu alæat uñ Koste Tvo, Eg bijd hier JEsum ydur fram, Eda Mordingiañ Barrabam. † Hañ meinte ad yrde helst med þvi, HErrañ fra Dauda giefeñ frij.

Þu fær nu glögt af þessu sied, þar sem DRott-eñ er ecke med, J Verke, Asorme og Vil a Mañs, Verda til Einskis Raadeñ hañs, Siervitska Holldsins svikul er, so sem Pilatum skiede hier.

† Ykermeñerner allra fyrst, Oskudu ad DRot-teñ Krossestest, Almwgañ so i Añañ Stad, Egg-judu mest ad bidia uñ þad, Barrabas Utlausn skyllde skie, skileñ JEsus fra Lijse sie. †

Veralldar Dæmeñ varast skallt, vogadu ecke ad giora þad allt, sem Høfdingiarner nu hafast ad, Þo Heimureñ kalle Loflegt þad, Ef Blindur leider Blindañ hier, Badum þeim hætt vid Falle er.

Hvor þig eggiar a Jllverk brad, alldrei gack-tu med þeim i Rad, viñ þu þad ei fyrer Metord Mañs, ad missa Guds Rad og Vinskap hañs, hvorugur añars bæter Bøl, Þo bader rate i Straff og Kvøl.

Yfer Moñunum er þvi vant, Undersatarner hnissa grant, epter þvi sem fyrer Augun ber, aud-næmast þo hid Vonda er, hvad Høfdingiarner

hafast

hafast ad, hiner ætla sier leysest þad.

Jll Epterdæme a alla Grein, eru samlijkt vid Mylnu Stein, Viliér þu vera af Fare frials, festu hañ alldrei þier vid Hals, J Guds Otta fra þier Glæpum hrind, good vertu ødrum Fyrermynd.

Hws-Frw Pilati holl gaf Rad, hefde hañ betur ad þvi gad: Goodar Kvinur þess giæte mest, giarnañ astunde Dæmeñ best, Abigael fær Æru og Sæmd, Jlla Jezabel verdur ræmd.

Set eg þad nu i Siñe mier, sæte JEsu ad giæta ad þier, Aller hroopudu allt uñ kring, yfer þig Dauda og Krossfesting, sem Lamb meinlausast þagder þu, Par af stendur mier Huggun trw.

Løgmaa'sins Bolvan bitur og sterk, Banværn Diøfull og øll m'jn Verk, Po hroopa vilie nu hvørt fyr'r sig, Hefnd og Fordæming yfer mig, Nv eg miñ JEsu þijn i þvi, Fra þeirra Klogun verd eg fr'j.

Afell's-Doomsins Ogna Hroop, Ytstu Myrkraña Vein og Oop. Alldrei mun koma ad Eyrum mijn, Eyruñ Blessud fyrst heyrdu þijn, Kall og Hareyste krijngum sig, fra Kvøl og Angist þad freisar mig.

Hroopar nu yfer mier Himen og Jord, Helgun, Frid, Rad og Sattargiord, hvørt helldur eg geing Ut eda Jñ, J þijnu Nafne JEsu miñ, Bænar-Hroop mitt i hreirnre Trw, Himneskum Gude þocknast nu.

Eñ hier til Heidurs allañ Tijd, Einglar DRottens og Christneñ frijd, hroopar nu bæde a Himne og Jord, Hosaña, Lof og Packargiord, Amen seiger og uppa þad, Aund mijn gladvær i hvorium Stad, Amen.



# XXIII. Psalmur.

## Uñ Christi Hwdstrijking.

Ton, Oss lat þiñ Anda styrkia, etc.



PIlatus HErrañ hædsta, Hwdstrijkia lætur þar, Nakeñ vid Stoolpañ stædsta, Astreingdur þa JEsus var, Strijds-Meñ med Svipum hrocktu hañ. † Saal mijn hier skaa og skoda, hvad Sonur Guds fyrer þig vañ.

† Helgasta Hollded frijda, fraa Hvirfle Iljum ad, DRottne vard sart ad svijda, svall allt af Benium þad, Hvor hañs Lijkama Limur og Æd, af Saarum sundurflakte, sw Hyrting miog var skiæd.

Blessadur Dreyreñ dunde, DRottens Lijfs-Ædum wr, sem Regn þad hradast hrunde, Himens i dimu-Skwr, Blaanade Hollded eñ boolgnade Und, Sonur Guds sart var kvaleñ, Saklaus a þeirre Stund. †

Jeg var sem Fiotrum færdur, Fangelse þrongu i, a Aund og Samvitsku særdur, Syndeñ mijn oll e

olle þvi, sw Daudleg Saalar Sootteñ hier, Uñ hvorla Ed wt sier dreisde, Eckert fañst heillt a mier.

Svipañ Logmaalsins lamde, Lijf og Saal hell dur frekt, Otteñ Kvalaña kramde, komeñ var eg i Sekt, Banvænlegt orded mitt var Mein, Hiartad af Hrygdum stunde, hværge fieckst Lækning nein.

Saastu þa JEsu sæle, Saar mijn Obærelig, til Lausnar þijnum Præle, þvi lietstu binda þig, giecks so under þa Grimdar Kvol, ad eg kvittadur yrde, vid eilijft Hrygdar Bol.

Siwkdoom miñ sialfur barstu, so vard eg heill med þvi, Hørmungum hladeñ varstu, fra Hrygdum er eg nu frij, Hegning þu fieckst so hefde eg Frid, Beniar þijnar mier bættu, Boot sw þar atte vid.

Hiartad vill Hrædslañ kreynkia, med hørdum Sorgar Stijng, Þegar eg giore ad þeynkia, uñ þijna Hwdstrijking, Avi eg gaf þar Efne til! Þu eirn gallst Priootsku miñar, þess nu eg ydrast vil.

Þvi fell eg nu til Foota, Frelsareñ JEsu hier, Lattu mig Nafns þijns nioota, Nad og Vægd siindu mier, Eg skal med Hlijdne heidra þig, nu og uñ Eilijfd alla, Þa huggar þu HErra mig.

Gledstu mijn Saal, þig grædde, Guds Sonar heilagt Blood, þo Synd og Sorgeñ mædde, sia hier er Lækning good, Nad fyrer Reide nu er vijs, Brot Prælsins HErrañ bætte, bar þvi sijns Fød urs Hrijs.

Skoda þu Skylldu þijna, skijrlega Sæl mijn nu, Sonureñ sig liet pijna, so læknud yrder þu, Heilbrygd þioona þu honum riett, med Trw, Hollustu og Hlijdne, Haf Gæt a þiñe Stiett.

Pocknest honum ad þlaka, þitt Holld Ørkums-lum med, Pijdlega þvi skallt taka, Poleñmoodt Hiarta-Gled, Afier DRotteñ og elskar best, Lausnara ad lijkiast þijnum, Lof er hier allra mest.

Eckert mæa sooma sijdur, sijkætur Prœll ñ er, þa HErrañ Harmkvæle lijdur, haf slijkt i Miñe hier, Hrygdar Mynd hañs er Heidur þiñ, Læt mig þad læra og hallda, Liwfaste JEsu miñ, Amen.

# XXIV. Psalmur

## Uñ Purpurañ og Pyrne Koronuna.

Ton, Til þijn Heilage HErra Gud, etc.

†

Flvyrkiar JEsum epter þad, Jñ i Pijng-Hwsid leiddu, Afklæddu fyrst, og fliootr þangad, Foolked allt koma beiddu, Purpura-Klædis forna Flijk, (fæst mætte varla Hædung slijk) yfer hañs Beniar breiddu. †

Helgunar Klæded hafde eg mist, hlaut þvi Nakeñ ad standa, Adam olle þvi allra fyrst, Arf liet mier þañ til Handa, Syndaña Flijk eg færdest i, Forsmæn og Mijnkun hlaust af þvi, med hvorskins Hæska og Vanda.

Burt-

Burt took JEsus þa Blygdun hier, heran þvi liet sig pijna, Riettlætis Klædnad keypte mier, kañ sa fagurt ad skijna, Athvarf mitt iafnañ er til sañs, under Purpura Kapu hañs: Par hyl eg Misgiord mijna.

† Þyrne Koronu þrængre þeir, Þreyngdu ad HErrañs Eñe, Baal-Ellde heitum brendu meir, Broddar svijdande i heñe, Augun hañs bæde og Andlit med, allt af Bloodenu fyllast ried, Slijkt trwe eg Kvala kieñe. †

Fyrer Ohlijdne Adams var, Øll Jordeñ lijst i Bañe, Avoxt þvi slijkañ af sier bar, Ord Guds trwe eg þad sañe, Þessum Bølvunar Þyrne-Kranß, þreyngt var ad Hofde Lausnarans, til Huggunar hrelldum Mañe.

Eñ JEsu Hlijdne aptur hier, allre Jord Blessun færer, Heilnæmañ Avoxt hun þvi ber, hveria Skiepnu vel nærer. Fyrer Giæskuñar Giorning þañ, Gøfge, Lofe og prijsi hañ, hvad sig uñ Heimeñ hrærer.

Bølvan mier yfer Hofde hieck, hootud i Logmaals Bræde, Eñ JEsus hana under gieck, so aptur eg Blessan næde. Gud miñ Koronu gaf mier þar, Giædsku og Dijrdar eilijfrar, hier og a Himnum bæde.

† Reyr-Staf honum i Hond med Spie, Hyrdstiorans Prælar feingu, Heilsudu Konge og krupu a Knie, Kalls Ord a vijgsl þa geingu, Reyrnum hroktu uñ Hofud hañs, hræktu i Andlit

lit Lausnarans, med Kvala Kappe straungu. †

Pa þu geingur i Guds Hws iñ, giæt þess vel Saal mijn frooma, Hæd þu þar ecke HErrañ þiñ, med Hegdun Lijkamans tooma, beigdu Holldsins og Hiartans Knie, heit Bæn þijn Astar Kvedia sie, Hræsneñ mun siist þier sooma.

Siaalfs mijns Verdskulldan sie eg hier, soddañ aatte eg ad lijda, uñ Eilijfd þa sem alldrei þver, med Ogn og saarum Kvijda, hefde mier ecke Hormung þijn, hiaalpad JEsu fraa þeirre Pijn, Blessad sie Nafn þitt blijda.

Oll þijn Læging er Upphefd mijn, Astkiære JEsu millde, Heidur er mier ad Haadung þijn, hvor sem mier nidra villde, Hoggeñ sem leidstu hressa mig, aa Himnum verd eg nu fyrer þig, meteñ i mesta Gillde.

Medañ Lijfs Ed er i mier heit, Eg skal þig DRotteñ prijsa, af Hiartans Gruñe i hvorium Reit, Heidur þijns Nafns auglijsa, Feigeñ vil eg i Heime hier, hlijda og fylgia i ollu þier, Laat mier þijna Lidsemd vijsa, Amen.

## XXV. Psalmur.

### Uñ Utleidslu Christi wr Pijnghwsenu.

Ton, Konung David sem kiende, etc.

†

Lands-Doomareñ þa leidde, Lausnarañ wt med sier, Gydingum Andsvor greidde, glogglega og so tier: Pier siaed þeñañ hier, Sañlega ydur eg seige, Sok fiñst med honum eige, sw Dauda-Dooms verd er.

Pa gieck JEsus wt þañeñ, Pyrne og Purpura bar, Sagde: Siaed hier Mañeñ, Sialfur Doomareñ þar, Gydingar gaafu Svar, Burt med hañ, so þeir selgia, Sa skal a Krosse deyia. Ofl þeirra Ein sw var.

Ord og Affsokun gilldte, eingeñ i þessum Stad, Heipteñ so Hugañ fyllte, Hiartad vard forblindad, siidañ þeir sogdu þad, Lioos-lega Lijfs Strafss krefde, Logmaaled, þvi hañ hefde, giort sig Guds Syne ad. †

Riett Log sem ritud fiñast, Rangfærdu Judar hier, Oss ber þar a ad miñast, Jll Dæme fordunst vier, Doomureñ DRotteñs er, hiñ þo med Heiptum klage, og hreinañ Sañleik aflage, Siae Valldsmeñ ad sier.

Pa eg heyre miñ HErra, hvorsu þu kvaleñ vart, giorvoll vill Gledeñ þverra, gallstu mijn næsta hart, Þvi eg braut myked og margt, Eñ þa mier Gudspioll greina, glogt þitt Sakleysed hreina, Hiartad fær Huggun snart.

Athuga Saal mijn ættum, Utgaungu DRotteñs hier, so vid riett miñast mættum, hvad Myskun hañs veitte þier, hyggium ad hañ wt ber, Pyrne

ne Koronu þietta, þar med Purpurañ lietta, Blaar og Bloodugur er.

Med Bloodskulld og Bølvan straunga, Beiskum reird Kvala Hnwt, aattum vid greidt ad gaanga, fraa Guds Naad rekeñ wt, hrakeñ i Heliar Swt, J-klædd Forsmaanar Flijkum, fraa skwfud DRottne rijkum, Nakeñ og Nidurlwt.

O! Synd, O! Synden arga, hvad Jllt kiemur af þier? O! hvørsu Meinsemd marga, maa DRotteñ lijda hier? Þitt Gialld allt þetta er, B indad Holld þig ei þeckte, þegar þijn Flærd mig bleckte: JEsus Mysckune mier!

Eñ med þvi wt var leiddur, Alsærdur Lausnareñ, giørdest mier Vegur greiddur, J Guds Naadar Rijke iñ, og eilijft Lijf Añad Siñ, Blood-Skulld og Bølvan mijna, burt took Guds Sonar Pijna, Dijrd sie þier DRotteñ miñ.

Ut geing eg ætijd sijdañ, i Trauste Frelsarans, under Blæ Himens blijdañ, Blessadur vijst til Sañs, nu fyrer Nafued hañs, wtbored Lijf mitt lided, legst og hvijlest i Fride, Saal fer til Sælu Rañs.

Dijrdar Koronu dijra, DRotteñ giefur mier þa, Rettlætis Skrwdañ skijra, skal eg og eirneñ faa, Upprisu Deigenum aa, hædstum Heidre til reiddur, af Heilogum Einglum leiddur, i Sælu þeim siaalfum hiaa.

So munu Guds Einglar segia: Siaaed nu þeñañ Mañ, hvørn allskins Eymd ried beygia, aadur

ur

ur i Heimsins Rañ, opt var þa hrelldur hañ, fyrer Blood Lambsins blijda, hweñ er nu ad strijda, og sælañ Sigur vañ.

Pa muntu Saal mijn svara, sijngiande føgrum Ton, Lof sie mijnum Lausnara, Lamb Guds aa hædsta Thron, Sigur gaf sijnum Piðon, uñ blessadar Himna Haller, hønum segium vier aller, Heidur med sætum Soon.

Son Guds ertu med Sañe, Sonur Guds JEsu miñ, Son Guds Syndugum Mañe, Sonar Arf skeinkter þiñ, Son Guds eirn Eing:eteñ, Syne Guds sijnge gladur, sierhvør lifande Madur, Heidur i hvørt eitt Siñ, Amen.



## XXVI. Psalmur.

### Samtal Pilati vid Christum.

Ton, Hædste Gud HErra millde, etc.



HEr þa uñ Guds Son heyrde, Heideñ Lands-Doomare, hañ spyr (þvi hrædast giørde) hvadañ vor DRotteñ sie, eñ JEsus þijdur þagde, þad og vel maklegt var, Pilatus bradt ad Bragde, bistest og aptur sagde, villt þu ei veita Svar?

Mijn er þad mattu jaata, Makteñ so Tignarlig, Jeg maa vel Lausañ laata, lijka Krossfesta þig, JEsus svarar og segir: Sijst attu Valld aa mier,

er, Ef þier være þad eige, ad ofañ giefed so meiger, Heidre þeim hallda hier.

Saa hefur Synd eñ meire, er selde mig hier aa Hond, Pilatus hygg eg þad heyre, hañ grundar Maa'eñ vond, giørde strax Grida ad leita, gaafu Prestarner Ans: Vægd ef þessum villt veita, vijst maattu ecke heita, kiær Vinur Keysarans. †

Heiding:ar hallda giørdu, Hiaa-Guder þeirra señ. Born ættu aleñ aa Jordu, eins og Holldleger M:ñ, hañ Ottast hier ef være, HErrañ Godaña Kyns, hugde þvi hellst ad bære, Hyggelega frañ fære, Rañsookn Riettdæmesins.

Skwrgod sijn Heidner hielldu, hafande i mestu Akt, Forgiefens Hug siñ hrelldu, hrædder vid þeirra Makt. O! hvorsu framar ætte, Eirn sierhvor Chr:steñ Mañ, Ottast DRottens Almætte, med Ast og Blygdunar Hætte, sem Stolltum steypa kañ.

Af stoorre Makt sig ried stæra, stolltur Pilatus hier, Riett Maal til Rangs ad færa, Reiknade Leyfelegt sier, kañ vera margañ meige, Meining sw villa þraatt, þo Laugeñ brioote og beyge, bañ ad sie þeim þad eige, fyrst Valld þeir hafa haatt.

Gud er sa Vollldeñ giefur, giæte þess ædre Stiett, sitt Liene hvor Eirn hefur, hier af DRottne tilsett, hañ liet þig Heidur hliota, Heidrast þvi af þier vill, Virdingar vel maatt niota, eñ varast Drambseme liota, Roog og Ranginndeñ Ill.

Yfervalld Eirn Gud sende, Undermeñ giæte þat ad,

ad, Sverd Drottens hefur i Hende, heidra skullum vier þad, hlijduger Fride hallda, Hlijfd og Forsvare naa, Yverlyndis Prioostkañ kallda, þwnglegre Hefndar-Giallda, ad viisu sier vænta maa.

Eins sem hvor eirn misbrijtur, epter þvi straffast hañ, hardare Hefnder hlijtur, hiñ sa meira til vañ: Peim mun ei Plaagañ þverra, sem þrioostkast i Synda Root, sa Pioon aa Von hins verra, sem Vilia þecker sijns Herra, þo giorer þvert aa moot.

Vardveite Vallds-Meñ alla, Vor Gud i siñe Stiett, So varest i Vondsku ad falla, vel stunde Log og Riett, Hiner i Hlijdne stande, hvor so sem skylldugt er, Hrein Trw og helgur Vande, halldest i voru Lande, Amen þess Oskum vier, Amen.

## XXVII. Psalmur.

### Pilati Samtal vid Gydinga a Doom-Stoolnum.

Ton, Skapareñ Stiarna HErra hreirn, etc.

†

Pilatus heyrde hootad var, honum Keysarans Reide þar, wtleidde JEsum Añad Siñ, uppsest þegar aa Doom-Stooliñ. Gydingum sijdañ sagde hier, Siaed þar ydar Kongur er, Peir baadu, tak þeñañ burt fraa oss, Braadlega laat hañ deyia aa Kross.

Ska

Skal eg Krossfesta Kong ydvarn, kallar Pilatus Hædnis giarn, Aungvañ Kong seigia þeir aptur hier, utañ Keysarañ hofum vier.

Gudspialls Historiañ hermer frá, Heite sá Stadur Gabbatha, haafa Stein-Stræte þijder þad, † Þar mættu Saal miin giæra ad.

Vei þeim Doomara er veit og sier, vijst hvad riim Maaled riettast er, Viñur þad þo fyrer Vinskap Mañs, ad vijkia af Gotu Sañleikans.

Pilatus Keysarans hræddest Heipt, Ef hönum yrde wr Volldum steipt, þetta sem hellst nu varast vañ, vard þo ad koma yfer hañ.

O Vei þeim! sem ad Oriett Log, umgængast og þau tijdka miog, Sañleiknum meta sitt Gagn meir, Svijvirding DRottne giora þeir.

Huga snij eg og Maale mijn, miñ goode JEsu eñ til þijn, Pilatus Kong þig kallar hier, Krossfesting Judar Oska þier.

Vijst ertu JEsu Kongur klaar, Kongur Dijrdar uñ Eilijf Ar, Kongur Englaña, Kongur vor, Kongur Almættis Tignar stoor.

Þo stoodstu bundeñ þar fyrer Doom, þo leidstu Hroop og Kvala-Room, afsseigia giordu aller þig, undrar stoorlega þetta mig.

O JEsu! þad er Jaatning mijn, Jeg mun uñ sijder nioota þijn, Þegar þu Dijrdar DRotteñ miñ, Doomstool i Skyum setur þiñ.

Frelsadur kiem eg þa fyrer þiñ Doom, Fagnadarsælañ heyre eg Room: J þijnu Nafne Utvalder,

vader , U vaten kalla mig hiaa sier.

Kong min JEsu eg kalla þig , kalla þu Præl þin aptur mig , Herra-Tign aungva ad Heimsins Sid , helld eg þar meiga jafnast vid.

Haafa Stein-Stræted Heimsins sleipt , hefur mier opt i Vanda steypt , Þaingad liet JEsus leida sig , so Lykneñ hans kome yfer mig.

JEsu þijn Christne kijs þig nu , Kongur heñar Eirn heiter þu , Stioorn þijn heñe so hallde vid , ad Himneskum naae Dijrdar-Frid , Amen.

# XXVIII. Psalmur.

## Uñ Pilati Handa-Þvott og Doom.

Ton , Nu bid eg Gud þu Maader mig , etc.

†

Pilatus saa ad soñu þar , sijn Raad mætti ei gillda par , Upphlaup sier bwed hræddest hañ , hugde ad stilla Vanda þañ , Fullnægia villde Foolksins Boon , saa skyllde JEsus Daudans Tioon , Sañleika aungvum siñte meir , so dæmde allt sem beiddu þeir.

Hendur i Vatne þa nam þvo , þar næst vid Juda mællte so , sialfer uñ ydur siaaed þier , Saklaus vid Reettlaatt Blood eg er , allur Almugiñ uppaa þad , Andsvarar greidt i þessum Stad: Hañs Blood (þo nu hañ kvelie Kross) kome yfer Bornen vor og oss. †

Pilatus hafde proofed þar, Pijslar-Sok Drottens eingen var, Fyrer og epter eins ried han, U-skurda JEsum saklausan, þo moot Samvitsku sine þvert, Sialfur viliande dæmde hert; Gud giefe ad Yfervollden vor, Varest þaug Dæme Glæpa stoor.

Hvad margur nu i Heimenum, hier fyrer lastar Pilatum, sem þo e'skar og ydkar mest, Athæfe hans og Dæmen vest? Otten i Doome opt fær Sess, Jfer-Herrarner nioota þess, Almwgans Hrøsun olle þvi, Jllgiarner Skalkar hlaupa frij.

Abata Von og Vina Hoot, Verken dylia þo sieu lioot, Lijka kiemur su Fordilld fram, sem forsvarad gietur Barrabam, giefst þa Raunen hvad gillda skal, Gull-Twngan sw sem Achan stal, marskie og þigge Mwtur hin, meir en Pilatus þetta Sin

Eg spyr, hvad velldur, Odygd flest, Eyksi nær Daglega og fiolgar mest? Umsioonarleyse er Orsok hædst, Eigen Gagnsmuner þessu næst, Myskun sem heiter Skalka-Skiool, skianest epter um fannjitt Hool, Otten Løgen svo þviingar þratt, þora þaug ecke ad lijta hatt.

Fyrer Foolkenu þegar þar, Þvode Pilatus Hendurnar, fyrer Gude sier þan giorde Grun, gillda munde su Assokun, varastu Madur Heimsku hans, hier þo þu viller Siooner Mans. Almattug Drottens Augsijn skiær, allt þitt Hiarta ransakad fær. Villtu

Villtu þig þvo, þa þvo þu hreint, Vel Hiart-ans bæde lioost og leynt, Ein Laug er þar til Edla good, Ydrunar-Taar og JEsu Blood, graat þij-na Synd, eñ set þitt Traust, a Sonar Guds Pij-nu Efalaust, Laat af Illu, eñ ydka Gott, allañ varastu Hræsnis Vvott.

Bloods-Hefnd a sig og Børn sijn med, blind-adur Lijdur hroopa ried, Efldest so þesse Offeñ folld, Eñ i Dag bera þeir heñar Giolld. Alhuga giarn og Ordvar siert, Einkum þegar þu Reidur ert, Formæling illañ fiñur Stad, fast melga Dæmeñ uppa þad.

O Rotteñ JEsus sem dæmdur vart, Doom-are kemur þu aptur snart, Dooms-Meñ lattu til Dijrdar hier, Doomana vanda riett sem ber. Vvo þu vor Hiortu og Hendur med, hreiñ Trw vardveite roosamt Gied, Þitt Blood flecklaust sem floode a Kross, Frelse þad Borneñ vor og oss, AMEN.

## XXIX. Psalmur.

### Um̃ Barrabas Frelse.

Ton, Eins og sitt Barn, etc.

†

SElldi Pilatus Saklausañ, Son Guds til Krossens Dauda, Upphlaups Madur sa Viig eitt vañ, þa Frelse fañ, fieck Lijf eñ miste Nauda.

I Myrkva Stofu saa bunden beid, Barrabas trw eg hañ heite. † Maa hier finast Ein Merking greid, um Mañkyns Neyd, miog skijr ad ollu leite.

Barrabas fraa eg Fødurs Nid, Flester Lærder Meñ þijde, Adam sijkest þar Eflaust vid, og allt hañs Lid, sem ætell Daudans Kvijde.

Upphlaups Madur hañ ordeñ var, þa Epled i Muñ sier leidde, siaalfs Guds Bodorde siñte ei par, og sijdañ þar, sig og allt Mañkyn deydde.

I Diofuls Fiotrum fastur laa, Fangeñ til eilijfs Dauda, Aller hañs Nidiar wt i fraa, med Eymd og Praa, ættu Von Kvala og Nauda.

Hier þa JEsu var Heled kallt, af Heidnu dæmt Yfervallde, Fieck Adam aptur Frelsed snisallt, og Foolk hañs allt, sem fagnar þvi Lausnar Giallde.

Nu fyrst eg Adams Nidie er, nær mier geingur þad Dæme, Saal mijn set slijkt fyrer Siooner þier, og siaadu hier, sañferdugt Lærdoom Næme.

O hvad opt hef eg aumur giort, Uppreisn moot DRotteñs Anda! Daglega þvi hañs Bodord bert, so braut eg þvert, mier bar þo i Hlijdne ad standa.

Mun og ecke vid Mañdraap frij, Mijna Saal braatt eg deydde, Ill Dæmeñ gaafust af mier nij, og Nauder i, Naungañ þar med leidde.

Ofrægur er eg ordeñ mest, Allar Skiepnur þad saña, Faaraadum eckert Forsvar siest, Faangelsed vest, fyrer þvi hlijt eg kaña.

I

J Myrkva-Stofu eg bunden bijd, Bolvan Logmaals mig hræder, Dapurt nálægest Dauðans Strijd, og Doomsins Tijd, Daglega Sorgen mæder.

Heyre eg nu þann Hiálpar Room, ad hafer þu JEsu millde, fyrer mig lided Lijflaats Doom, þijn Lijknenn froom, Lausann mig kaupa villde.

Sw heilaga Aflausn, Hrygd og Swt, af Hiarta mijnu greider, Syndanna leysir Hleckia Hnwt, og hier næst wt, wr hørdu Fangelse leider.

Hvad Dauda saknæmt fast á mier, (soddann Myskun eg þecke) Til Dauda allt var dæmt á þier, minn DRottenn hier, Doomenum kvijde eg ecke.

Mitt Lijf og Saal þig lofar nu, leyst frá Dauðans Fangelsi, Eg lifi eda dey, Þad er mijn Trw, Obrygdul sw, J þijnu JEsu Frelsi.

Himneskre Paaska-Hátijd á, hef eg nu þess ad bijda, Myrkva-Stofunne frelstur frá, Eg fagna þa, J Flocke Utvalldra Lijda.

So er nu Barrabas orden frij, Adam og eg hanns Nidie, hvør Christenn Saala Heime i, vorn HErra þvi, Heidre, Lofe, Tilbidie, Amen.

## XXX. Psalmur.

### Umm Christi Krossburd.

Ton, Twinga mijn af Hiarta hliovde, etc.



STriids Meñ Christ wr Kæpu færdu, og klæddu hañ sijnum Bwning i, Sollnar Under sarrt vid hrærdu, Pær svidu og blæddu uppa nij, a Blessudu sijnu Bake særdu, hañ bar siñ Kross og mæddest þvi.

Skiede so a samre Stundu, Simon nockurn bar þar ad, Framande Mañ; Er gieck um̃ Grundu, gripu Judar þañ i Stad, Kross num a hañs Herdar hrundu, Hañ giecksi naudugur under þad. †

Peir sem (Saal mijn) Synder drijgia, Samvitskuñe þvert a moot, Under DRottens Endurnija, Ef ecke giora a Lostum Boot, Vid skulum fra þeim Flocke slija, og Fyrergiefningar bidia af Root.

Uppa Heimsins Opacklæte, er hier Dæme liooft til Sañs, margañ Læknade Son Guds sæte, Siwkañ medal Almwgans, Nu var ei neirn sem Boled bæte, og bære med honum Krossen hañs.

Simon bæde og Syne hañs bada, sialf hier nefner Historiañ: Gudhræddur skal niota Nada, og Nidiar marger epter hañ, Myskunsemd vid Meñ fara ada, miñast Gud og launa kañ.

Framande Madur mætte Christe, med honum bar hañs þwnga Kross, Hier ma fiña hvorn þad lyster, hreina Pijding uppa oss, Gydinga Foolk þa Guds Nad miste, gafst Heidingium Dijrdar Hnoss.

Synda-

Synda-Under ysast mijnar, Opt a hvorre Stundu nær, Samvitskuñar Sorg ei dvijnar, Svida-Meined illa grær, Blessadar JEsu Benjar þijnar, Bid eg mijke og lækne þær.

Þesse Krossens þwnga Byrde, Þier var Drottñ løgd a Bak, so Fyrermyndan fylld sw yrde, þa Foornar Vidiñ bar Jsaach, Saa þiñ Ganguren Sorgar-styrde, af Saalu miñe took Omak.

Miñest eg a Piaaning þijna, þig sw mædde Byrdeñ strijd, sañlega fyrer Saalu mijna, soddañ leid þijn Glæskañ blijd, vegna þess mier virdstu ad sijna, Verkunseme nær eg lijd.

Holld er tregt miñ HErra millde, J Hørmungunum ad fylgia þier, Þo eg feigeñ feta villde, Footspor þijn sem skylldugt er, Vilieñ miñ er i veiku Gyllde, þu verdur þvi ad hiaalpa mier.

Elsku-Gied so þitt eg þecke, Piadum villtu sijna Lid, Lattu mig Drotteñ einañ ecke, J Anaud miñe þess eg bid, Nafned mitt, þo Nauder hnecke, Naad þijn blessud kañest vid.

Komer þu under Krosseñ straanga, Christeñ Saala, giæt þess hier, Ef Hollded tekur ad mogla og maanga, miñstu hvor þiin Skylldañ er, Lattu sem þu siaer gaanga, siaalfañ JEsum undañ þier.

Under Krosse J lwyrkiaña, alldrei hier þig siña laat, Varastu Græpe vondra Maña, a Verkum þijnum haf þu Gaat, Ydka Bæn og Ydran saña, Elska giarnañ Hoof og Maat.

Haf þu JEsu mig i Miñe, Mædu og Daudans Hrelling stytt, Born mijn hiaa þier Forsioon fiñe, frá þeim ollum Vanda hritt, Lättu standa at Lijfs-Book þiñe, lijka þeirra Nafn sem mitt! AMEN.

# XXXI. Psalmur.

## Predikun Christi fyrer Kvíñunum.

Ton, Sá friáls vid Logmaal fæddur er, etc.

†

HOlked sem DRottne fylgde wt, Fyllteſt margt Angre hordu, Kviñurnar grietu sáart med Swt, Sem hañs Kvol aumka giordu.

Snere t'l þeirra Son Guds sier, Sogde þa HErrañ mætur: Gráte þier ecke yfer mier, O! Jerusalems Dætur.

Sonu ydar og eigeñ Eymd, Eflaust þier gráta meiged, Náalgast sw Tijd sem nu er geimd, nær þier Harmande seged:

Sæl nu Obyriañ Barnlaus er, og Brioost þaug ei sogeñ voru, Hrynie yfer oss Haalsarner, Hæder og Fiollen stooru.

Ef giort er so vid þad græna Trie, gieta hvor til þess næde, Hvad hid þornada þa mun ſkie? † Þad trw eg JEsus Ræde.

O! hvad Veralldar Virding er, vollt og svik-ul

ul ad reyna, Siæt þess, mijn Saal, og siaadu hier, Sannproofad Dæmed eina.

A Paalma Sunnudag sialfur inn, Son Guds i Borg nam rijda, Astviner hanns þad sama Sinn, Swnzu Lof aan alls Kvijda.

Faam Dogum sijdar sialfur wt, Særdur med Kross nam ganga, Pad hlutu hanns Viner ad siaa med Swt, Serg Hiartans baaru straanga.

Hafi so vered vollt og flaar, Verollden HErra sijnum, Hvors maa sier vænta Prælleñ þa? Þess giæt i Huga þijnum.

Þeim sem hun bijdur Blijdleik sinn, Bwren er Sorgen mesta, hyrdtu þvi alldrei Huga þinn, vid hana nijn Saal ad festa.

Sannlega skylldugt segi eg mier, saara þa Kvol ad graata, sem DRotten JEsu þwngt ad þier, Preyngde i allan Maata.

Samt er þier ecke þient med þvi, þoott eg þig aumka villde, Eilijfa Haatign ert þu i, Upphafinn JEsu millde.

Þar maa nu helldur aukast af, Angur Samvitsku minnar, Ordsok eg til og Efne gaf, allrar Hormungar þinnar.

Ervide hefi eg auked þier, ofþwngt med Syndum minum, Glæpana sem eg giorde hier, gallstu aa Hollde þinu.

Hrædest eg mier sie hulen gelmd, sw Hefndar Pijnann straanga, Pvi eg vann til ad eilijf Eymd, yfir mig skyllde ganga.

Eñ þo gled eg mig aptur vid, Avoxteñ Kvala þiña, Þar af ödlaſt eg Freiſe og Frid, og Forlaat Synda miña.

Angiſteñ ſaar og Sorgar-Laat, Er Saal hellſt þiadu mijna, ſnijſt i Fognud og Feigeñ-Graat, ſyrer þa Myſkun þijna.

Bid eg nu JEſu blijde þig, ſem Boot mier giordt viña, Laat aungvañ giallda epter mig, Jllſku nie Synda miña, Amen.

# XXXII. Pſalmur.

## Uñ Græna og Viſna Tried.

Ton, Nu kom Heideña Hiaalpar Raad, etc.

†

Blæ Reiner JEſus uñ Græna Tried, gietur hiñs Viſna eirneñ med. † Vid ſkulum, Saal mijn, ſkoda a nij, ſkijrañ Lærdoom a Maale þvi.

Friðofgunar Eykeñ vokvud væn, vel bloomgud ſtood med Laufiñ græn, Þegar a Jordu ſaſt til Eañs, Son Guds J-klæddur Hollde Mañs.

Lijſſins Averte liſa bar, Læknade JEſus Sootternar, Fra Dioſle leyſte og Daudans Pijn, Daufum gaf Heyrn, eñ Blindum Sijn.

Afhvorre Grein draup Hunaang ſætt, Hiaalprædis Kieñing fieck hañ rædt, Oll hañs Uñgeingne Aſtwdleg, aungradar Saaler gladde miog.

Gude var þeckt þad græna Tried, gleddust Himnar og Jordeñ med, J hañs Fæding þad vitnast vañ, Og vid Jordan, þa skijrdest hañ.

Rettlætis allañ Avext bar, Jñ til Kross-Dauda hlijdeñ var, Saklausa Lambed Son Guds eirn, Af Synd og Lijtum klaar og hreirn.

Yo mætte ei þad Edla-Trie, Angurlaust vera a Jorduñe, Guds Reide Stormur geisa vañ, Gieck þvi Ressingeñ yfer hañ.

Ef þu spyr ad, Hvad vallda vañ, villde Gud læta Saklausañ, Soneñ komast i Sorger þær, sem hønum var þo Hiarta kiær?

Yu skallt vita ad visnad Trie, Var Mañkyn allt a Jorduñe, Ofañ ad Rootum uppþornad, Avext Ranglætis færde þad.

Skadsemdar Tried sem skieñde Jord, skipade Ð Rotteñs Reide herd, upphøggva, so þad ecke þar, Akrenum sie til Spillingar.

Vor JEsus Moñum Vægdar bad, viñast mætte ei ad feingest þad, utañ hañ tæke uppa sig: Jllveika Giølldeñ hryggelig.

HErrañ Jklæddest Hollde þa, hijnaad kom til vor Jordu a, Visnadre Eyk gafst Vokvan good, þa vard vthellt hañs dijra Blood.

Saklaus þvi leid hañ Sorg og Haad, Syndugt Mañkyn so feinge Naad, hid græna Tried var hraked og hrist, hier af þad visna bloomaadist.

Guds Dijrdar Sæte sitt Holld i, Sonureñ mætte ei hefia þvi, Fyrr eñ i Heime harda Neyd,

hafde

hafde þolad og Kroſſens Deyd.

O hvad Mañs Holld er Heimſku fyllt, hriggi- lega wr Maata viſlt, Viliande i Loſtum liggur þad, Leikur ſier allſkyns Glæpum ad.

Marger ætla fyrſt ecke ſtrax, æſellur Hefndeñ ſama Dags, DRotteñ þa alldrei mune meir, miñaſt a þad ſem giordu þeir.

Þvi gooda Trienu þyrmt var ſiiſt, þurrum Fauſk mun þa Vaaled viiſt, hafe Fadereñ hyrt ſiñ Son, Hefndar mun Þrælleñ eiga Von.

Ef nu Guds Milldeñ Aſtwdlig, Ohengda Saal mijn lijdur þig, hañs Þoleñmæde halltu hier, Hiaaprædis Medal giefed þier.

Viſnad Trie eg ad viiſu er, Vægdu Riettlæt- is HErrañ mier, Giæſkuñar Eikeñ græn og fijn, geimdu mig under Skugga þijn.

Von er ad mier ſie Mootkaſt viiſt, mun eg uñ- ſkya Daudañ ſiiſt, Hollded maa ei fyrer utañ Kroſs, Eignaſt a Himnum Dijrdar Hnoſs.

Tæpte eg mijnum Trwar-Staf, a Tried ſem drijpur Hunaang af, Sioon Hiartans ollu Ang- re i, upplijſeſt, nær eg ſmacka af þvi.

Þegar mier gaanga Þrauter nær, þier ſnw þu til mijn JEſu kiær, Hiartad hreſſe og Huga miñ, Himneſkur Naadar-Vokve þiñ, Amen.

* * *
** ** **

# XXXIII. Psalmur.

## Um̃ Christi Krossfesting.

Ton, Konung David sem kiende, etc.

†

SOm Loks med Krossens Byrde, Christur i Hausa-Stad, Orþiaadur fraa eg hañ fyrde, Edik Galle blandad, honum þeir hielldu ad, ORotteñ vor Dijrdar millde, drecka þo ecke villde, þa hañ smackade þad. †

Fals under fogru Maale, Fordilldar Hræsneñ ber, Vinaatta temprud Taale, og Tewarlaus Ydrun hier, Edik Gallblandad er, soddañ Swrdreggia Vijne, (þo siaalft glislega skijne) HErrañ hrinder fraa sier.

Pad tek eg viijst til Packa, þa þu villt ORotteñ kiær, Swrt med þier siaalfum smacka: sie þijn Myskuneñ skiær, J hvorre Neyd mier nær, Gall-Beiskiu Bolvaneñar, Og Vikareñ Heiptareñar, burt tak þu fraa mier siær,

† Nakeñ JEsum aa Jordu, Judar Krossfestu þar, med Heiptar Siñe hordu, Hendur og Fæturnar, Teigt allt og togad var, Gieck so Jaarn-Gaddur nistur, giegnum Loofa og Ristur, Skiñ og Bein sundur skar.

Tveggia Mordingia mille, Myskunar HErrañ hieck, Spaadoomeñ fraa eg so fylle, sem fyrmeic

meir um̃ þad gieck, Ræder so Ritning þeck, Pioon min̄ sa Ern Utvalen̄, er med Spillvirkium talen̄, Forsmaan miog þwnga fieck. †

Nu eg min̄est a næsta, Naken̄ þa Adam stood, Vid Tried med Hormung hædsta, Hiarta-So-ra, Bol og Mood, Pvi Verk han̄s voru ei good, Jn̄vortis Angred kvalde, under Trianum sig fal-de, Pess gallt oll Heimsins Piood.

Nu aptur JEsus naken̄, Negldur a Trienu stood, Pijndur, Hwdstrykstur, Hraken̄, Hiart-ans bar saran̄ Mood, Po voru oll Verk han̄s good, Eirn fyrer aungvum faldest, Open̄berlega kvaldest, Pess naut oll Heimsins Piood.

Horfe eg a Hendur þijnar, HErra min̄ JE-su kiær, fyrer Misgiørder mijnar, Mein̄ slijk lidu þær, Blood-Dreyren̄ dunde skiær, Saur-gun Saalar og Handa, sem mier komu i Vanda, af hreint med ollu þvær.

Fws var eg fram̄ ad hallda, Ferel Glæpan̄a hier, Pess Fætur þijner giallda, þad vard til Lijkn-ar mier, DRotten̄ eg þacka hier, fram̄ a Fridar-ens Leider, Footspor mijn jafnan̄ greider, hiedan̄ af hvar eg fer.

Gud giæfe mitt Holld mætte, med hier Kroſs-festast nu, fra ollum Illsku Hætte, Ofk mijn er Dagleg sw, min̄ HErra þad veitst þu, uppa þad Ond mijn kyn̄e, Ohindrud Giædsku þin̄e, þioona med þijdre Trw.

Eirn med Illrædis-Mon̄um, aller þig hiellu

þa,

þa, sem i Heilagleik soñum, sialfur komst Himnum fraa, Nu eg þess niota maa, af þvi eg er wtvaleñ, med ødrum Guds Børnum taleñ, Þar treyste eg Eflaust aa.

Jeg mun æ medañ hiare, miñast aa Krosseñ þiñ, Heimsins liwfe Lausnare, Lijfgar þad Huga miñ, hvort eg geing Ut eda Jñ, af iñstum Altar-Gruñe, ætijd med Hiarta og Muñe, Segiande hvort eitt Siñ.

JEsu Christi Kvøl Eina, A Krossenum fyrer oss skien, Sie mijn Saattargiørd hreina, Og Synda-Kvittunen, af sialfum Gude sien, uppaa þad Ønd mijn vonar, J Nafne Fødurs og Sonar, og Heilags Anda, Amen.

# XXXIV. Psalmur.

## Fyrsta Ord Christi aa Krossenum.

Ton, Lifande Gud þu lijt þar aa, etc.

†

Egar Kvalarar Krosseñ aa, keyra vorn HErra giørdu, Flatur med Trienu lagdur laa, Lausnareñ nidur aa Jørdu, Andlited hyrsde i þeim Stad, og Auguñ hañs Blessud Himnum ad, Hañ stunde af Angre hørdu. †

Siñ Fadm allt eins og Barned blijdt, breidde moot Fødurnum kiæra, Blooded dunde og Taareñ

reñ tiidt, titrade Hollded ſkiæra: Hier ſkoda Madur Huga þiñ, Hvad kuñe meira nockurt Siñ, DRottenñ til Hefndar hræra?

† Ovinum Fridar blijdur bad, Bruñur Miskunareñar, hañ vill þeir nioote eirneñ ad, Avaxtar Pijnu ſiñar, ſagde: Fader þeim fyrergief þu, Forblindader ei vita nu, ſiaalfer hvad vondt þeir viña. †

Lauſnara þijnum lærdu af, Lunderne þitt ad ſtilla, Hoogværdar Dæme gott hañ gaf, nær giøra Meñ þier til Jlla, Bloot og Formæling varaſt vel, ꝍ Valld Guds allar Hefnder fel, Hiartad lææt ei Hug þiñ villa.

Þoott þu vid adra Saklaus ſiert, ſañ'ega ſkallt þeſs giæta Samt fyrer Gude ſekur ert, ſaa ꝍ þig friaaiſt ad græta, Jller Meñ eru i Hende hañs, Hyrtingar Vondur Syndugs Mañs, Engeñ kañ þeſs ad þræta.

Ovinum Jlls þo Offer hier, ei mijnkar Heiptañ þeirra, Obolenmæde eykur þier, afræker Bod þiins HErra, Þu ſtyggier Gud med ſoddañ Sid, Samviſkañ miog þar ſturlaſt vid, Tioon þitt verdur þvi verra.

Uppliiſtu Hug og Hiarta mitt, HErra miñ JEſu ſæte, ſo ad eg Dijrdar Dæmed þitt, Daglega ſtundad giæte, Þeir ſem Oforþient angra mig, Offa eg hellſt ad betre ſig, ſo hiaa þier Myſkun mæte.

Heimſins og Diofuls Hreckia-Viel, Hollded

þrav,

þrælega villa, þess vegna ecke þecke eg vel, Þo nu margt giøre eg illa, bere so til eg blyndest hier, Bid þu þa JEsu fyrer mier, Þad mun Hefnd harda stilla.

Eg maa vel reikna auman mig, Eirn i Flock þeirra Mana, sem i Kvølenē þiædu þig, Þad voru Giølld Syndana, Eñ þu sem bætter Brot mijn hier, Bid þu og lijka fyrer mier, so faae eg Frelsun sana.

Fyrst þu badst Fridar fyrer þaa, er Forsmaan þier giordu mesta, Vissulega eg vita maa, villtu mier allt hid besta, Þvi eg er Guds Barn og Brooder þiñ, Blessade JEsu HErra miñ, Naad kañ mig nu ei bresta.

Allra sijdast þa aa eg hier, Andlaate miinu ad giegna, Sie þa miñ Gud fyrer Sioonum hier, Sonar þijns Pijnañ megna, Þegar hañ lagdur læugt aa Trie, Leit til þijn Augum Grætande, Væg þu mier þa hañs vegna, Amen.

# XXXV. Psalmur.

## Uñ Yferskriftena aa Krossenum.

Ton, Nœtturañ øll og Edle Mañs, etc.

†

Yferskrift Pilatus Eina liet, yfer Krossenum standa, JEsus nefndur af Nazareth, Nijr Kongur Gydinga Landa (DRottne

með Sañ, Doomareñ sañ, Dauða-Sok aung-va stærre) Margur las það, i þessum Stað, Þvi hañ var Borg so nærre.

Það var ritað og þañeñ sett, i þreñslags Tungu-Maale, Walldsmeñ Juða það vissu riett, Vilia þvi Pilatus brіæle, hañ ansar greidt, ei skyllde neitt, umbreitt, og framar tiaðe: Hvað skrifað er, skal standa hier, † so skiede af DRottens Raðe.

Þar nu a Krosse HErrañ hieck, hier að miin Saala giætum, Virdingar Titil fagrañ fieck, með Forprijs Sakleysis mætum, að Hiaalparsins, heiter JESUs, Heimsins Lausnareñ gooðe, hvør Diosle fraa, oss frelsa maa, Flecklaus með sijnu Blooðe.

Nazarenus hañ nefnest þar: Natturu Spilling Mañа, fraaskileñ Eirn að vijsu var, Velþecka Hlijdne sañа, sijnde hañ hreint, Lioost bæðe og leint, Lifanda Guðe Einum, hañs Tignar-Son, Trwr forsiaall Pioon, tryggur i øllum Greinum.

Kongur Gyðinga klaar og hreirn, J Krapte Guðlegum drottnar, sa Davids Stool skal ersa Eirn, alldrei hañs Rijke þrotnar, Jsraels Hroos, Heideña Lioos, heiteñ Forfeðrum leinge, soddañ Titel, Soomde riett vel, Saal mijn, þiñ HErra feinge.

† Soddañ Virdingu villdu hañ, Vonder Gyðingar sneiða, Heiptar Øfundeñ i þeim brañ, af þvi Pilatum beiða, Orðtak það braaðt, A

Añañ

Aññañ Hætt, wrfæra settum Mæta, hañ kvad vid Ney, Þvi þad vill ei, Þeim DRottteñ veitast læta. †

Dramblætum setur DRotteñ Skamt, med Diorfung sijna og Hrecke, Þeim lijdst svo sem hañ leyser framt, Leingra komast þeir ecke, Allt skal mitt Traust; Efunarlaust, æ hañs Makt jafnañ standa, Hvad munu mier, þa Meñerner, meiga i nockru granda?

J Preñslags Tungum var þetta skræd, þviad vor HErrañ millde, villde sijn Elska, Ast og Næd, allre Þiood byrtast skyllde, hvørt Tungu-Mæl, med Huga og Sæl, Heidre þig JEsu goode, sem Kvoleñ þijn, og Krossens Pijn, Keypte fræ Synda-Moode.

Giefdu ad Moodur-Mæled mitt, miñ DRotteñ þess eg beide, Fræ allre Villu klært og kvitt, Krossens Ord þitt wtbreide, Uñ Landed hier, til Heidurs þier, Hellst mun þad Blessan vallda, Medañ þijn Næd, Lætur vort Læd, Lyde og Bygdum hallda.

Hand-Skrift var Ein yfer Høfde mier, hun mijna Sælu græette, Oñur stood JEsu yfer þier, sem Angur vors Hiarta bætte, JEsu þu ert Utvaleñ bert, Under Kongs-Stioornan þiñe, Ar og Sijd, Uñ allañ Tijd, Ohætt er Sælu miñe, AMEN.

* * *

# XXXVI. Psalmur.

## Um̃ Skipteñ a Christi Klædnade.

Ton, Hvar munde vera Hiartad mitt, etc.

†

STrijds-Meñ þa hofdu Krossfest Christ, Klædnad hañs tooku snart, skiptu i Stade Fioora fyrst, sa skyllde hvor siñ Part, a Kyrtel prioonadañ lioost med Lyst, logdu þeir Hlutfall diarst, Foolsku-Verk medañ fullgiordest, Foolked a horsde margt.

Ritning sw Eina uppfylld er, adur var þar um̃ skraad, Skrwda mijnum þeir skiptu sier, Skiirlega þad er tiaad, Hlutfalled yfer Fat mitt fer, Fæ eg þess eirneñ gaad. † Set Madur slijkt fyrer Siooner hier, sia DRotteñs miklu Raad.

Nu mattu skilia nakeñ var, negldur DRotteñ a Kross, Opeñbert saau aller þar, wtrueñ Dreira-Foss, soddañ Forsmaan Guds Sonur bar, sañlega fyrer oss, hier giesst ollum aan Hylmingar, Himneskt Myskunar Hnoss.

Kalla eg merke Klædeñ hañs, Christnena i Heime hier, Um̃ Fioorar Atter Folldar-Rañs, Flockur sa dreifde sier, Lijfkyrtell þesse Lausnarans, Lijknar Ord blessad er, vilie þvi skipta Skynsemd Mañs, Skilning Sañleiksins þver.

Ei liet vor DRotteñ Audlegd ha, epter i þess-

um Heim, Klæden sem han bar Hollde a, Enn hvorke Gull nie Seim, Po maatte ei hans Mooder faa, hid minnsta af ollum þeim, Iller Menn Hende yfir þau slaa, alldrei þvi Dæmegleim.

Safna Hooflega Heimsins Aud, Hugsijkinn sturlar Gied, þigg af DRottne þitt Daglegt Braud, duga laat þier þar med, Hollded þa Jordenn hylur raud, Hlotnast maa Jmsum Fied, so þig ei ginne Gyrndenn snaud, Giæt vel hvad hier er skied.

Strijdsmanna Heypt og Hardydge, HErrans Kvol gat ei mijkt, Po vite noog hann særdur sie, Sinned var Jllsku rijkt, Peir sem Faatækann fyrra Fie, Foolsku Verk drijgia slijkt, Gud laate þig ei Glæp þann skie, þu 'giorer annad þvilijkt.

Naken a Krosse hieckstu hier, HErra minn Gud og Mann, Fullnadar Borgun feingenn er, fyrer mig Syndugann, þa Foorn DRottenn, og Saal mijn sier, sw gledst, enn blijdkast hann, Brwdkaups Klædnad tilbioostu mier, Pann besta eg gyrnast kann.

Hendtuglega fiell Hlutur saa, HErra minn JEsu Kiær, Pu lietst mig aumann finna og faa, Fagnadar Ord þijn skiær, Peim Klædafallde þreifa eg a, þegar mig Hrygdenn slær, Straumur Eymdanna stodvast þa, Styrk nijann Hiartad fær.

Hier þo nu skipte Heimurinn, hlæande Aude sijn, Endast saa Glaumur eitthvort Sinn, þa Æfinn Lijfsins dvijn, Mier laattu hlotnast HErra minn, Hlutfall næst Krosse þijn, Svo Dijrdarfegurste

Dreire þiñ, driwpe a Saalu mijn, Amen.

# XXXVII. Psalmur.

## Aũad Ord Christi a Krossenum.

Ton, Ef Gud er oss ei sialfur hia, etc.

†

UPPreistum Krosse HErrañs hia, hañs Mooder stand a nærde, Sverded sem fyrr ried Simeon spa, Saal og Lijf heñar þi-ade, Johañes eirneñ JEsu kiær, Jafnt var þar lijka staddur nær, Glogt sa ad ollu gæde.

Siñe Moodur hañ segia ried: SON PJNN LJJTTU PAR KVJNNA, Vid Lære-sveineñ Lijka med, Lausnareñ blijdt nam iña, SJA PU OG MOODUR PJJNA PAR. Padañ i fra (sem skylldugt var,) Sa took hana til siña. †

Sa sem Hlijdneñar sette Bod, siñe Blessan ried heita, Peim ed Forelldrum Styrk og Stod, stunda med Elsku ad veita. Soddañ Dygdaña Dæmeñ hier, DRotteñ vor sialfur gaf af sier, Bornunum epter ad breita.

Gyrnest þu Barn mitt Blessan fa, Biorg Lijfs og Giæfu fijna, Forelldrum skalltu þijnum þa, Pocknan og Hlijdne sijna, Ungdooms Pver-lynded optast nær, Olucku og Slis ad Launum fær, Hreckvijsa Hefnder pijna.

Eckiur-

Eckiurnar siña eirneñ hier, Agiætis Huggun blijda, JEsus allt þeirra Angur sier, Uñsioon þeim veiter frijda, Ef þær med hreinum Huga og Sid, hallda sig DRotteñs Pijnu vid, og hañs Hiaalpræðis bijda.

Maria DRotteñs Mooder kiær, merker Guds Christne saña, Under Krossenum optast nær, Angur og Sorg maa kaña, til heñar lijtur þo HErrañ hijrt, Huggunar Orded sender dijrt, og Forsioon Froomra Maña.

Pad reyneſt opt i Heime hier, Hlutfall DRotteñs Astvina, Hormungar Sverded ſaart þaa ſkier, Sælld Holldsins gledur hina, Hverier þo Christum hata meſt, hefur þad laungum vidgeingeſt, Lijtt vill þvi Angre lina.

Eñ þeir sem JEsum elſka af Root, under hañs Krosse ſtanda, HErrañs Blood-Fadme horfa aa moot, Hvorn þeir lijta i Anda, Trwar og Vonar Siooneñ ſett, Saar hañs og Beniar ſkodar riett, Pad mijker Mein og Vanda.

JEsus eirneñ med Aſt og Raad, aptur til þeirra lijtur, Giefur Hugſvolun, Hiaalp og Raad, Harma-Bond af þeim ſlijtur, Adgiæteñ Fodurs Augun klaar, Oll reiknar ſiña Barna Taar, Adſtod þau alldrei þrijtur.

Jeg lijt beint aa þig JEsu miñ, Jafnañ þa Hrygdeñ ſærer, J mijnum Kroſſe Kroſſeñ þiñ, Kroptuglega mig nærer, ſierhvort einaſta Saared þitt, Sañlega græder Hiartad mitt, Og nijañ

Foanud færer.

Pa eg Andvarpa, Offa og Bid, Augunum Trwar miñar, Lijt eg hvort einast Ordedvid, upp til Kross-Pijnu þiñar: Strax sijna mier þijn signud Saar, Syndugum Mañe opeñ staar, Bruñur B essunariñar.

Glede-Stund Hollds þa giefur mier, Gud miñ ad Vilia sijnum, Uppa þig JEsu horfi eg hier, Hiartans Augunum mijnum, Audlegdar Giædeñ Lijkamlig, Laattu þo alldrei villa mig, fraa Kross-ens Fadme þijnum.

Jonas sat under einum Lund, aungra Meina þvi kiende, Hadegis Soolar Hita-Stund, hañ ei til Skada brende, JEsu Kross-Skugga Skioo-led hier, skijler þo laangtum betur mier, fyrer Guds Hefndar Hende.

Hvort eg Sef, Vake, Sit edur Staa, J Sæ-lu og Hættum Nauda, Krosse þijnum eg helld mig hiaa, Horfande aa Blood þitt rauda: Laat mig eirneñ þa Æfiñ þver, wt af sofna aa Footum þier, So kvijde eg sijst vid Dauda, Amen.

# XXXVIII. Psalmur.

## Um Brijxleñ sem Christur leid aa Krossenum.

Ton, JEsus sem ad oss frelsade, etc.

Þeir

†

Heir sem ad Christi Krosse sen̄, Komu og fram̄ hiaa geingu, Hristu med Haadung Hofuden̄, honum til Briixlis feingu, Heit-Ord siin hefde han̄ halldet lijtt, HErrans Mustere ad briota, aa Premur Døgum an̄ad nijtt, Efna med Bygging fliota. †

Tveir lugu soddan̄ Fals-Men̄ fyrst, fyrer Caiphas Doome, af þvi hafde þad wtboreſt, epter Fiolmen̄is Roome, Þesser þo haf̄i heyrt og sied, HErrans Jardteikner frijdar, Lijgen̄ þeim betur gaſſt um̄ Gied, geingur so en̄ til vijdar.

† Olldungar Landsins Foolked flest, og Flockur Heiden̄ Stridsman̄a, HErran̄ vorn JEsum hæddu mest, med Hofdingium Prestan̄a, Sogdu: Ef ertu Son Guds kiær, saa þig med Krapte stidur, Kom þu hier, So þad siaaum vær, siaalfur af Krossenidur.

Han̄ saa ed ødrum hefur hier, Hiaalpad og læknad marga, Megnar nu ecke ad son̄u sier, siaalfum wr Neyd ad biarga. Soddan̄ Haadyrde, Hroop og Daar, hlaut þa JEsus ad lijda, stood þad yfir um̄ Stunder Priaar, Stutt var Andlaats ad bijda. †

Þaa fram̄hiaa Christi Krosse nu, Kallsande helld eg gaanga: Sem ecke af Hiartans Ast og Trw, Elska han̄s Pijnu straanga, Heilagleik siinum hroosa frij, vid Holldsins Fysn sig binda, sijdan̄ falla Orvænting i, ed a Forherding Synda.

Ad þijnum Krosse Christe kiær, kiem eg sem eirn Framande, gief þu mier Leyfi ad gaanga nær, Sied mitt styrke þiñ Ande, so eg hugleide hvad til kom, Hædung, Briixl-Ord og Pijnu, Leidstu Mañ-Giædsku Milldeñ froom, Moote Andlæte þijnu.

Saal mijn og Lijf þær Sæmder hlaut, siaalfs Guds Mustere ad heita, J Skijrneñe, Þvi eg þijn ad naut, þad nam Guds Ande ad veita, Sijdañ hefur þad Syndeñ morg, saarlega giort ad brioota, Hollds Natturañ þvi elskar org, Athæfid Heimsins liota.

A Premur Døgum þar æ moot, Þvi hiet eg morgu Siñe, med Ydran, Trw og Yfirboot, aptur þad bætast kyñe, Æ! hvad veiter slijkt ervidt hier? Efneñ og Dug vill þverra, Briixled sem til var bwed mier, bar þvi JEsus miñ HErra.

J Velgeingneñe eg hroosa hætt, Hraustleika Trwarññar, J Mootlætenu hun bilar brætt, Brest fiñ eg stooraû heñar, Eingeñ fullkomeñ æ mier siest, Avoxtur Dygda sætur, Bar þvi fyrer mig Briixled vest, Blessadur JEsus mætur.

Hiaalpa læst eg med heilnæm Raad, hinum sem illa breita, Siaalfs mijns Lijta þo sijst fæ gæd, soddañ mæ Blindne heita: Mier var þar stærsta Mijnkun ad, mætte Hædyrdum kvijda, Burt-took nu JEsus Boled þad, Briixleñ þvi villde hañ lijda.

JEsu i þijnu Andlæte, yfir þig Briixleñ dundu, ad so i Fride Ønd mijn sie, æ miñe Dauda-stundu.

stundu, Haadung leidstu af øllum Eirn, Alla fraa Faading leyster, alldrel tapast saa nockur neirn, Er Nafn þitt uppaa treyster.

Nær sem Hreckvijsra Haadung nij, Hiartad mitt saart vill staanga, under þin Kross eg feigen fly, fram hiaa skal eige gaanga: Þar stend eg kyrr, þo Kalls og Spie, kveike mier Heims Oblijda, uppaa þig JEsu Eirn eg sie, allt vil eg med þier lijda.

Fyrst þu varst hæddur HErra, þa, Harma Kvøl leidstu slijka, so heidre þig nu hiedan i fraa, Hymnar og Jorden lijka, Aller Einglar og øll Heims Mynd, under þitt Valld sig hneige, og eg þar uppaa aum Mannkynd, Amen af Hiarta seige, AMEN.



## XXXIX. Psalmur.

### Um Næningians Ydran.

Ton, Eirn HErra eg best ætte, etc.



NNar Næningen rædde, sem ressad þad Sin var, HErran vorn JEsum hædde, han gaf þetta Andsvar: Ef þar Von er til nockur, ad þu Guds Sonur siert, hiaalpa þier og so ockur, wr þessum Naudum bert.

En hin þar uppaa giegnde, ecke hrædest þu Gud, Hvorium Straffs Heypten hegnde, Hun var riett forþienud; Vid meigum vel med taka, Verka

Be-

Betaling hañ, Eñ þesse er alls aan Saka: Epter þad sagde hañ:

Hugsa þu til mijn HErra, þa helldur þu Rijke þitt, Ast DRottens ei nam hverra, Andsvar liet heyra sitt: SANNlega Eg PIer SEige (sw er Hugguneñ vijs) Pu SKallt aa þessum Dege, MIer PIoona I PARADys. †

Siaa hier fyrst Straffed Synda, Saala mijn hryggelegt, Forherding Hiartans blinda, Po Hollded kvelieft frekt. Giefdu mier JEsu goode, Eg giegne vel Hyrting þijn, med Trw og Taara-Floode, og tlaae hier Broteñ mijn.

Ræningians ydran Eina, Athugum lijka med, hañ giorde Jaatning hreina, hatade Jllverk skied, Pvi sagde hañ være ad Vonum, Verdlauneñ Raunglætis, Avijtun veitte honum, sem villde ei giæta þess.

Hañ trwde aa Himnarijke, hefde vor JEsus Raad, þo Syndugra sijndest Lijke, so treyste aa hañs Naad, med Blygdun og hrelldum Huga, HErrañ sijn miñast bad, Liwflega liet sier duga, Loford ef feinge þad.

Hroop og Haareyste giordu, Heidner og Judar þar, Krijngum Krosseñ aa Jordu, med Kalls, Bryxl og Haadungar, Svarade ei Son Guds neinu, Po siaalfañ þad snerte hañ, Eñ Syndugs Mañs Orde Einu, aan Dvalar giegna vañ.

Sætt mier fyrer Sioonum skartar, Sæll JEsu Giæskañ þijn, Pier gieck helldur til Hiarta, hañs

Reyd eñ sialfs þijns Pijn, Sama hefur þu Siñe, Vid syndugar Skiepnur hier, Þvi alldrei Elsku þiñe, aptur miñ HErra fer.

Illvyrkeñ hafde uñed, Odæda Verkeñ stædst, Gotu Glæpaña ruñed, Greidt fram i Daudañ næst, Eñ JEsus ecke villde, at þad neitt miñast nu, svo var mikel hañs Millde, mijn Sæl þad Hugleid þu.

Eingeñ Orvænta skyllde, Þo ydrast hafe seint, Som er Guds Sonar Millde, sie añars Hiartad hreint, Þvi hvørke vid Stade nie Stunder, stijlud er DRotteñs Naad, Allt fram Andlæted under, Oss bijdst hañs Hialpar-Raad.

Eñ þu skallt ecke Treysta, Ovissre Dauda-Stund, Rie Guds med Glæpum freysta, Giørande þier i Lund, Naadar-Tijmeñ sie næsta, voogur Hondum fyrer, slijkt er Hættusemd hædsta, heñe Gud forde mier.

So margt eg syndgad hefe, Sorgeñ mig sturlar nu, Ydrun Guds Naad mier giefe, Glooande Von og Trw. HErra JEsu Hiart-kiære, hugsa þu til mijn þa, Dapur er Daudeñ nærre, Og drag mig Kvølum fraa, Amen.

# XL. Psalmur.

## Pridia Orded Christi a Krossenum.

Ton, Skapareñ Stiarna HErra hreirn, etc.

Uppa

†

UPPaa Ræningians Ord og Boon, ansade Guds hiñ Kiære Son: PU Skallt, SANNLEga SEIGE EG PIer, SÆLU-VIst hafa i Dag Med Mier. †

Staadu med Giætne Saal mijn kiær, soñ Ydran hvoriu kraptad fær, Uppaa þad Dæmed er hier riett, ollum til Lærdooms fyrerseit.

Reide DRottens þa uppegnd er, yfer Raanglæte Mañsins hier, Ydruneñ blijdkar aptur Gud, ei verdur Syndeñ tilreiknud.

Po kome hoftug Hefndeñ braad, hrein Ydran jafnañ fiñur Raad, midt i standande Straffe þvi, stillest Guds Reide uppaa nij.

Samvitsku Orma Saareñ vest, soñ Ydran jafnañ græder best, Hugsvalar Saal, og huggar Gied, Heilaga Eingla gledur med.

Bæn af ydrande Hiarta hijr, hun er fyrer Gude meteñ dijr, HErrañ JEsus aa hvorre Tijd, heñe gaf jafnañ Andsvor blijd.

Sem Moyses med sijnum Staf, sætt Vatn droo fordum Steine af, Eins fær ydrande Andvarp heitt, Ut af Guds Hiarta Myskun leidt.

Jaatning mijn er su JEsu miñ, Jeg er sem þesse Ræningeñ, jaa, aungvu betre fyrer Augsijn þijn, ef þu villt reikna Broteñ mijn.

Kiem eg nu þijnum Krosse ad, kañast þu JEsu miñ vid þad, Syndaña Pronge þiakar mier, þreyttur eg nu ad mestu er.

Als

Allnaken þig a Einu Trie, vt þijnar Hendur breidande, Saaren og Blooded signad þitt, sier nu og skodar Hiartad mitt.

Þar vid huggar mijn Saala sig, soddan allt leidstu fyrer mig, Þijns Hiarta Dreyra Heilog Lynd, hreinsar mig vel af allre Synd.

Krossens burtnumen Kvølum fraa, Kongur rijker þu Himnum a, HErra þegar mig hreller Pijn, huxadu i þiñe Dijrd til mijn.

Seigdu hvørn Morgun svo vid mig, sæte JEsu, þess beide eg þig: J Dag þitt Holld i Heime er, Hiartad skal vera þo hiaa mier.

J Dag (hvørn Morgun eg so bid) alldrei laat mig þig skiliast vid, Hugur, Siñe og Hiartad mitt, hugse og stunde a Rijked þitt.

Eins þa kiemur mijn Andlaats Tijd, Ordeñ laat mig þau heyra blijd, J Dag (seig þu) skal Saaleñ þijn, Sañlega koma i Dijrd til mijn.

HErra miñ þu varst hulen Gud, þa Hædne leidst og Krossens Naud, þo hafder þu med hædstare Daad, a Himnarijke Valld og Raad.

Daudanum moot mier Diørfung nij, Daglega vex af Orde þvi: J Dag, þa lijdur ei laangt um̃ þad, leidd verdur Ønd i Sælu Stad.

O! JEsu sieu Ordeñ þijn, Andlaats sijdasta Huggun mijn, Saal miñe verde Sælañ vijs, med siaalfum þier i Paradijs.



41. Ps.

# XLI. Psalmur.

## Pad Fioorda Ord Christi at Krossenum.

Ton, Af diwpre Hrygd akalla eg þig, etc.

†

UM Land giorvallt vard yfred myrkt, allt nær fra Siottu Stundu, Sooleñ þvi Lioosma siñ fieck byrgt, señ til hiñar Niundu, GUD MJñ (JEsus svo hroopar hatt) HVAR FYRER GLEJMDER PU MJER BRADT? † Soddañ miin Saal vel mundu.

Eingeñ skal hugsa ad HErrañ þa, hafe med Efa og Bræde, Hroopad þañeñ, nie horfed fra, Heilagre Poleñmæde: Syndaña Krapt og Kvalaña Stærd, Kyñer hañ oss, So verde hrærd, Hiortun fra Hreckia Æde.

Sooleñ blygdast ad skijna skiær, Pa Skaparа siñ sa liida, Hun hafde ei Skulld, Pad vitum vær, þess Voda-Meinsins striida, O! Hvad skyllde þa skamast siin, Skiepnañ sem DRottne jook þa Piin, med Hrygd og Hiartans Kviida.

Avi! hvad maa eg aumur Præll, angraadur nidur driwpa, Pa eg heyre miñ HErra sæll, Sw Harma-Bylgiañ diwpa, Gieck yfer þig þa gallstu miin, giarnañ vil eg ad Footum þijn, Feigeñ frañ flatur kriwpa.

J ytstu Myrkrum uñ Eilijfd er, Op og Gnijstran Tañaña, Hefndar-Straff þad var makleat mier,

mier, fyrer Margfiølldañ Glæpaña, fraa þvi JEsu þu frelster mig, Frekt geingu Myrkreñ yfer þ g, so skyllde eg þa Kvøl ei kaña.

J svørtu Myrkre þad sama Siñ, Sorgar-Raust lietstu hliooma, þa hroopader þu mig HErra iñ, J Himneskañ Dijrdar Dooma: J þvi Lioose um eilijf Ar, wthroopa skal mijn Raustteñ klaar, Lof þiña Leyndardooma.

Synda, Sorga og Mootgaangs med, Myrkreñ so opt mig pijna, ad glogt fær ecke Saaleñ sied, Sælu Geislana þijna, JEsu Riettlæts Sooleñ sæt, Syrgiande eg þad fyrer þier græt, Harma-Raust heyr þu mijna.

Gud miñ, Seige eg giarnañ hier, Geist þo mig Sorgeñ mæde, JEsu eg lære nu þad af þier, þad skulu mijn Ucræde, Giorvøll þa Heimsins Gledeñ dvijn, Gud miñ eg hroopa vil til þijn, Gud Miñ allt Bøl mitt græde.

Yfergiefeñ kvad Son Guds sig, Pa særde hañ Kvøleñ megna, yfergiefur þvi alldrei mig, Eilijfur Gud hañs vegna, Fyrer þa HErrans Hryggdar-Raust, Hædstur DRotteñ mun Efalaust, Graatbeidne miñe giegna.

Pa Soolar Byrtuñe eg sviptur er, Sioon og Heyrn tekur ad dvijna, Raust og Maalfære mijnkar mer, Myrkur Daudans sig sijna, J Miñe þier DRotteñ sæll þa sie, Sonar þijns Hroop a Krossens Trie, Leid Saal til Lijfsins mijna, Amen.



# XLII. Psalmur
## Fimta Ord Christi aa Krossenum.
Ton, Eins og sitt Barn, etc.

†

Swarre Neyd, sem JEsus leid, sagde hañ glogt, MJG PYRSTER, So Ritning hrein, J hvorre Grein, Uppfyllteft Ein, uñ þad mig ræda lyster.

Strax hliop Eirn ad, Pa heyrde þad, hitta Niordarvott kuñe, Liet aa Reyr-Prik, Drap i Edik, med illt Tilvik, og bar JEsu ad Muñe. †

Forundrast maa, Mijn Saal, bar aa, Madureñ hvor þess giæter, ad hañ sem Raad, hefur med Daad, aa Himne og Laad, Hormung þvilijkre mæter.

Hañ saa sem Vijn, af Vallde sijn, wr Vatne sætt tilreidde, med Sorgar Skick, fieck swrt Edik, fyrer Svala-Drick, Pa saart hañ Porsteñ neydde.

Þvi munde ei hier, til Hlijfdar sier, HErrañ Ediked sijka, Sem Vijn aagiætt, giora vel sætt, fyrst gat þad bætt, hañs Guddooms Maktiñ rijka?

Komeñ var Tijd, Kraptaverk frijd, Christur ei giora skyllde, Hin Stundeñ þa, fyrer Hende laa, Hrygd, Kvol og Praa, HErrañ vor lijda villde.

Kraptaverk hrein, Kiendu þa Grein, ad Christur Guds Sonur være, eñ Kvoleñ hañs, synde

til Sañs, ad Syndugs Mañs, Sekter og Giolld hañ bære.

G·ds einka Son, giørdest vor Pioon, þa grædde hañ Mein og Kvijda, Offur-Lamb best, hañ ordeñ siest, fyrer utañ Brest, J þvi hañ Kvøl nam lijda.

Af Strijde þvi, Sem stood hañ i, Styrkleike Mañs Nattúru, Preytast miøg vañ, þvi Þyrste hañ, Þaade Bøkvañ, Þo af Edike sworu.

J Añañ Stad, merk Madur þad, og minst þess hvoriu Siñe, ad HErrañ Christ, hefur mest þyrst, af Ast og Lyst, epter Sáluhiálp þiñe.

O! Madur nu, Þeink þar uñ þu, þiñ Hugur blygdast skyllde, Gud Þyrste hier, ad hiálpa þier, Eñ Hiartad þitt er, Obyrst epter hañs Millde.

Heyr þu Saal mijn, Talar t'l þijn, Trygda-Brwdgumeñ goode: Þyrstur eg er, J Hrygdum hier, so hiálpe eg þier, wr hættu Kvalaña Floode.

Ber honum sijst, Þess bid eg vijst, Beyskañ Dryck Hræsnis Anda, Ordeñ hañs hrein, a alla Grein, fyrer utañ Mein, Obriálud lattu standa.

Upp a Ord þijn, svarar Saal mijn, Sorgeñ þo Mæled hepter: Þyrst er eg nu, og þad veitst þu, þijde JEsu, Piñe Myskunsemd epter.

Ecke er hia mier, Þad Þyrstum þier, Þore eg nu fram ad biooda, Nema fa Taar, Trw veik, þo klaar, sem til þijn staar, Tak þad og vird til gooda.

Lof, Dijrd sie þier, Lausn fieckstu mier, og letst þig so miklu kosta, Hiartad a nij, huggast af þvi,

 ad

ad eg er frij, fra eilijfum Kvala Porsta, Amen.

# XLIII. Psalmur.

## Sjøtta Ord Christi a Krossenum.

Med Hymna Lag, etc.

†

EPter ad þetta allt var skied, Edíked JEsus smacka ried, Prooтt og Lijfs Krapta þverra fañ, PAD ER FULLKOMNAD, sagde hañ: †

Ord þijns HErra med Ast og Trw, Athuga skylder Saal mijn þu, Ef þeirra Grundvoll sañañ sier, Sæta Huggun þau giefa þier.

Fyrst skalltu vita ad Gud wtgaf, Greinelegt Logmaal Þimnum af, hañ vill ad skule Heime i, Hvor Madur lifa epter þvi.

Algiort Riettlæte Lioost og Leynt Lijkama, Saal og Gieded hreint, Syndalaus Ord og Atvik med, Af oss Logmaaled heimta ried.

Hugureñ vor og Hiartad sie, J hreinne Elsku riett breñande, Fyrer utañ Hræsne, Bræde og Bañ, bæde vid Gud og Naungañ.

Hvor þetta giære hallded riett, hønum var Lijfed fyrersett, Eñ ef i Einu wt af bra, Eilijf Fordæming vid þvi la.

Einge eñ Madur fra Adam fyrst, Epter þañ Dag hañ syndgadist, Fullnægiu gat þvi giørt til Sañs,

Hañs, geingur þad laangt yfer Edle Mañs.

Obæreleg vard allra Sekt, epter þvi DRottenñ gieck so frekt, Añad hvort skyllde uppfyllt þad, Eda Mañkyned fortapad.

JEsus Eymd vora alla sa, Ofañ kom til vor Jerdu a, Hædum Himna Uppruneñ af, under Logmaaled sig hañ gaf.

Viliuglega i vorn Stad gieck, var su Frañkvæmdeñ Gude beck, Fodurnum Hlijdne fyrer ofs gaallt, Fullkomnade so Logmaal allt.

Eñ so ad Synda-Sekteñ skied, sañlega yrde forlijkt med, og Bolvan Logmaalsins burtu mad, Beyska Kvel leid og Daudans Haad.

Pa hañ nu hafde allt Uppfyllt, sem ofs var sialfum ad giora skylldt, og bæte oll vor Broteñ frij, Verlega villde hañ lijsa þvi.

Þess vegna HErrañ hroopa nam, hartnær a Krosse stijgeñ fram, ad ofs i voru Andlaate, Oll hañs Verdskulldan Huggun sie.

Soddañ adgiættu Saala mijn, Sonur Guds hroopar nu til þijn, hvad þier til Frelsis þiena kañ, PAD ER FULLKOMNAD, seiger hañ.

Fullkomnad Logmaal fyrer þig er, Fullkomnad Gialld til Lausnar þier, Fullkomnad allt þad fyrer er spaad, Fullkomna skalltu eignast Naad.

HErra JEsu eg þacka þier, Þvilijka Huggun gafstu mier, Ofullkomleika allañ miñ, Umbætte Guddooms Kraptur þiñ.

Hialpa þu mier so Hiartad mitt, hyze jafnañ

rũ Dæme þitt, og halldest hier i Heime nu, vid hreina Samvitsku og rietta Trw.

Uppaa þesse þijn Ordeñ traust, Obrædđur Dey eg Kvijdalaust, Pvi su Frelsis Fullkomnan þijn, Forlijkad hefur Broteñ mijn, Amen.



# XLIV Psalmur

## Sioumda Ord Christi aa Krossenum.

Ton, HErra Gud i Himna Rijke, etc.

†

HRoopade JEsus hatt i Stad, Hollds Megn og Kraptur dvijnar, Eg Fel Miñ Anda (Frelsareñ kvad) FADer i Hendur Pijnar. †

Pu Christeñ Madur heink uppaa, þijns HErra beyskañ Dauda, ad Ordum hañs og eirneñ gaa, Eru þau Lækning Nauda.

JEsus hallded i hædstre Kvol, bladeñ med Eymder allar, Dapurt þa adgieck Daudans Bol, DRotteñ siñ Fodur kallar.

HErrañ vill kieña þar med þier, Pijn ef Mañ Rauner freista, Goodlyndur Fader Gud þiñ er, giorer þu honum ad treysta.

Fyrer JEsum þu fullvel matt, Fodur þiñ DRotteñ kalla, eñ þo þig Krosseñ þvijnge þratt, þad mijker Hormung alla.

Eins og Fadereñ aumkar sig, yfer sitt Barn-

ed

ed siwka, so vill Gud eirneñ añast þig, og ad þier i Myskun hiwka.

Eirneñ sijna þier Ord hañs klaar, Odaudleik Saalareñar, þo Kroppureñ verde kalldur Naar, kreinkest ei Lijfed heñar.

Hvar hun fiñur siñ Hvijldar-Stad, HErrañ sijner þier lijka, Hønd Guds þijns Fodurs heiter þad, hugsa um̃ Nædu slijka.

Vilier þu epter endad Lijf, Eige þijn Saal þar heima, under Hønd DRottens hier þa blijf, hañs Bodord skalltu geyma.

Laattu Guds Hønd þig leida hier, Lijfs-Reglu hallt þa bestu, Blessad Ord hañs sem bodast þier, J Briooste og Hiarta festu.

Hrittu ei fraa þier HErrans Hønd, hun þo þig typta villde, Legg helldur bæde Lijf og Aund, Liwslega a DRottens Millde.

Hier þegar Mañleg Hiaalpeñ dvijn, Hollded þo kveine og siite, Uppaa Hønd DRottens Augun þijn, ætijd i Trwñe lijte.

Ad Morgne og Kvollde miñst þess vel, Maals Upptekt laattu þijna: Af Hiarta eg þier a Hendur fel, HErra Gud Saalu mijna.

So maattu vera viss uppaa, vilie þier Daudeñ granda, Saaleñ þijn mæter Myskun þa, millum Guds Fodurs Handa.

Hun fiñur eckert Hrygdar-Strijd, Hormung nie Nædu neina, J Fride skodar ætijd blijd, Asioonu DRottens hreina.

Eptterekt mier þad eirnen jook, Er eg þess giæta kune, Andlaats Bæn sijna sialfur took, Sen Guds af Davids Mune.

Bæn þijna alldrei bygdu fast, at Brioost Vit Natturu þinar, J Guds Orde skal hun Grundvallast, Þad giefur Styrk Trwarenar.

Vier vitum ei hvors bidia ber, Blindleiken Holids þvi velldur, Guds Ord sijner han Sannleik hier, Sæll er sa þar vid helldur.

Vertu Gud Fader, Fader min, J Frelsarans JEsu Nafne, Hond þijn leide mig Ut og Jn, so allre Synd eg hafne.

Honden þijn DRotten hlijfe mier, þa Heims eg Adstod misse, En nær sem þu mig hyrter hier, Hond þijna eg gladur kysse.

Daudans Strijd af þijn Heilog Hond, hialpe mier vel ad þreya, Medtak þa Fader mijna Ønd, mun eg so gladur deya.

Min JESU Andlaats Orded þitt, J mijnu Hiarta eg geyme, Sie þad og lijka Sijdast mitt, Þa sofna eg burt wr Heime, Amen.

# XLV. Psalmur.

## Um JEsu Dauda.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

Þa Frelsaren i Fodurs Hond, fool nu blessadur sijna Ønd, nidur sitt Hofud hneigde fyrst, HErran, i þvi han Sæladist. Drott

eñ vor þañeñ do a Trie, Da sem̃d Kuñe ei meire ſkie.

St Pall ſeiger i ſañre Raun, Syndarer ar ſie Daudeñ Laun, Bauaſpioot hañs eru Broteñ livot, Bodordum DRotteñs giørd a moot, Sa ſkal deya ſem ſyndgar hier, Soddañ Urſkurdur riettur er.

Eñ þad hier heima atte ſiiſt, Af þvi JEſus er Saklaus viiſt, af Helgum Anda med hreinum Sid, Hañ var gieteñ i Meyar Kvid, Guds Føðurs Veru fegurſt Mynd, Frials lifde og deo af allre Synd.

Hvorke Refſing nie Heliar-Bad, hafde nu JEſus forſkulldad, hvad kom þa til ad HErrañ leid, harda Pijnu og beyſkañ Deyd? Eda hvar fyrer hyrteſt hañ, Hyrtingar til ſem alldrei vañ?

Guds Ande þar a giører Skil, greiner þviliika Orſok til, Vegna Misgiørda vorra hier, viſſulega hañ ſærdur er, Þvi DRotteñ lagde ſo fyrer Sañ, Syndernar vorar uppa hañ.

Sia hier miin Sal, fyrer Synder þijn, Sonur Guds lijdur Kvol og Pijn, hañ deo fyrer þig ſem Daudans Bad, Darlega hafder forſkulldad, hañ liet ſitt Lijf, ſo lifder þu, Lijfs eilijfs Von þvi attu nu.

A mig var falleñ Pijngſla Praut; Þviad eg DRotteñs Løgmal braut, Samvitſku ſærde Synda-Grad, Svo ſieck Daudeñ ſterk Yfer-Rad, til Fordæmingar mier Fiotureñ hañs, Faſtlega hielldu viiſt t.l Sañs.

Logmaal safnade Sektum mier, Sekteñe Daudeñ epter ser, Daudeñ til Doomsins dreg- ur sñar, Doomureñ Straffed wrskurdar, Str- affed uñ Eilijfd alldrei dvijn, Eilijf þvi var hin þijngsta Pijn.

Logmaaled hier sig forgreip fyrst, fellde bad Doom yfer HErrañ Christ, þad baud ad sa Bol- vadur sie, sem Bana lijdur aa einu Trie, Diarf- lega epter þvi Daudeñ gieck, DRotteñ fraa Lijfe skiled fieck.

Sekt þa sem Logmaal sette mier, sialfur borg- ade JEsus hier, Pad miste sijna Makt i þvi, mig verdur nu ad laata frij, Daudans Broddur var broteñ þa, burt hañs Faangelse slapp eg fraa.

Eilijfur Daude deyddur er, Daude JEsu þad viñur hier, Dijrt metur DRotteñ Dauda miñ, Daude hvar er nu Broddur þiñ? Daudeñ til Lijfs nu stutt er Stig, Stoorlega Daudeñ bat- ar mig.

Daudeñ þvi orkar Eirn til saũs, wtslockna hlij- tur Lijfed Mañs, Holldeð leggst i siñ Hvijldar- Stad, hañs Makt nær ecke leingra eñ þad, Saal- eñ af ollu Faare frij, flutt verdur Himna Sælu i.

J þijnum Dauda O JEsu! Er mijn Lijfgiof og Huggun trw, Daasemdar Kraptur Dauda þijns, Dreifest nu iñ til Hiarta mijns, uppaa þad Synd og Jllskañ þver, wt af deye i Briooste mier.

Pu hneigder þijnu Hofde lioost, HErra, þeaar aa Krosse doost, med þvi bendter þu mier þad Siñ,

ad

ad miñast jafnañ aa Dauda þiñ, Eins þa eg dey, skulu Augun mijn, upplijta O Rottañ sæll til þijn.

Fyrer þañ Deyd sem þolder þu, þig bid eg JEsu um̃ þad nu, ad giefe mier þijn Giæskañ blijd, Gooda Christeñs Mañs Dauda-Tijd, Hollt mitt lææt hvijlast hægt med Frid, Hond þijn Saalune take vid, Amen.



## XLVI. Psalmur.

### Um̃ Teikneñ sem urdu vid Christi Dauda.

Ton, Pa liñer hier mijn Lijkams Vist, etc.



Egar Christur aa Krossens-Trie, Kañade Daudañ strijda, Teikn og Stoormerke mestu skie (mæler so Ritning frijda) Musteris Tialldid mieg um̃ vendt, J Midiu vard ad rifna i Tvent, Hristest Jord harla vijda.

Sundurklofnudu Biørgeñ blaa, byrgd Leideñ opnast fooru, Lijkamer Daudra lifna þa (lijt hier þau Undureñ stooru) Epter Lausnarans Upprisu, Jñ i Borgena vitiudu, af sumum þar siener voru. †

Hvad hier Historiañ hermer riett, hygg ad hvi Saal mijn mæta, Pier til Lærdooms er þad fram̃ sett, Pess aattu vel ad giæta, Jordeñ skalf þegar

JEsus

JEsus doo, Jafnvel þeir hordu Klettar þo, sundu Medaumkan sæta.

Steine hardara er Hiartad þad, sem heyrer um JEsu Pijnu, giefur sig þar þo ecke ad, an meir Giæliise sijnu; Kan nockud soddan kalldt Hugskot Christi Dauda ad gyrnast Not? Gud stioorne Giede mijnu.

Pad maa undra hin þwnga Jörd, Preyde ei Kyrru ad hallda, Blægrytis eirnen Biorgen hörd, Breste lidu margfallda, Hollded þo ei nie Hiartad Mans, hryggest vid Pijnu Skaparans, sem hans þo hlaut ad giallda.

Fortialldeð sijner Sanleik han, sundur þa rifna nægde, Af-takast skyllde oll fyrer San, epter Guds settu Rææde, Gydinga Kynsins Kongleg Stioorn, Kienevallded og Logmaals-Foorn, sem Ritning siaalf um spæde.

Hindrun ried ollum æred stoor, in i Guds Rijke bana, Pvi velldur Synda Seckten vor, Og Saurugleiken Verkana, En fyrer JEsu dijrstan Deyd, DRotten tilbioo oss opna Leid, Hiedan upp til Himnana.

Hier i Christnenar Helgedoom, hofum vier Frelse ad gæanga, Par bodast Nææd og Blessun froom, Burt er þa Sorgen strænga, Sælen vor hefur bwna Braut, Beint i Abrahams Gledeskaut, epter Heims Hormung længa.

Frelsarans Dauda eirnen ad, Ondud Lijken hier niota, Gudlegur Kraptur gioret þad, Grafernar

ernar

ernar opnast hlioota, Þvi DRottens JEsu Daude a Kross, Daudan sigrade fyrer oss, Ast hans og Brodd nam brioota.

Merk ad wr Jordu mætte ei Neirn, Madur fra Dauda standa, fyrr en tiede vor HErra hreirn, Holld sitt aptur lifanda, Fyrstur aftra þvi Uppreis han, af eigen Krapte, Og þar med fan, Endurlausn oss til Handa.

† Hofdingen Krosse HErrans hia, hier med allt Foolked lijka, Jafnsnart er soddan Jardteikn sia, Jatning þeir giordu slijka: Sannlega hefur Saklaus han, og Son Guds vered þesse Man. Briooft sla og brædt heim vijkia. †

Foolked sem harda Krossens Kvol, Christo fyrr Ofka næde, fan nu hid þijngsta i Brioofte Bol, Beiskleg Samvitskan þiæde. Ofhastarlegan Ursfurd sly, Ef þu villt vera af Sorgum frij, Hætt er Nasande Næde.

Daude þin JEsu DRotten þa, Dijrdlegan Krapt wtsende, Heidnum Mane so hier vid bra, han þig Guds Son medkiende, Jeg bid Giæskunar Gieded þitt, Gief þu vidlisne Hiartad mitt, ad so fra Illsku vende, Amen.

# XLVII. Psalmur.

## Um Christi Kuningia.

Ton, O! JEsu Elsku hreirn, etc.

Kun=

†

Kuñingiar Christi þa, Krossenum lœngt i fra, stoodu med þrœngre Pra, þessa Tilburde sia.

Var þar og vidstadt med, ad viisu margt Kveñ-Foolked, Saar JEsu feingu sied, Sorgande bœru Gied. †

Af þessu miin Saal þu sier, Sañlega hverju er, Vallt allt i Heime hier, haf sliikt i Miñe þier.

Ovinar og dreqst i Hle, a Dauda Stunduñe, Vinskapur, Frændur, Fie, Fallvallt hygg eg þad sie.

Po villdu Vinerner, Veita Hiaalp nockra þier, Born þeirra Onijter, Eingeñ Daudanum ver.

Liisenu hiwkar Hond, Pa herder Sootar-Grond, Hiaalpa þo eingeñ Ond, Upphuxud Rœdeñ vond.

Vinskap i Synda Sid, Saala miin þess eg bid halltu ei Verolld vid, vilier þu sofna i Frid.

Heinañ Vinskap hallt þu, vid HErrañ þiñ JEsum nu, J helgre Hiartans Trw, fra Heimsins Elsku þier snw.

Hañ eirn maa hiaalpa þier, þa Hiaastod Mañleg þver, Heim þig a Hondum sier, J Himna Sælu ber.

Pad hier i Sañleik siest, er Sonur Guds Andadest, Sorgeñ þaa særde mest sem hañ elskudu best.

Christs Born eru Kross-Born, vid Christum Hlijdnes giorn, Hañ sijner þeim Hiaalp og Vorn,

Po

Po hørd sie Swtar Kvørn.

Pu skyllder þar ad gaa, þo þeir stæde laangt fraa, Aller sambuga siaa, Son Guds Kroſs festañ aa.

Komed so Konur og Meñ, ad Krossenum JEsu señ, Po Naudeñ þreynge Preñ, þar fæst nøog Lækningeñ.

Kom þu Saal Christeñ hier, Sem Kroſs og Mañrauner ber, settu fyrer Siooner þier, Son Guds sem pijndur er.

Uppaa hañs heilog Saar, Horfi þijn Trweñ klaar, Pad mijker Trega og Taar, Tempraꝛ allt Sorgar Faar.

Siertu Syndugur Mañ, særdur uñ Hyggiu Rañ, Horf þu beint uppaa hañ, sem Hiaalp þier aa Krosse fañ.

Hvør sem Eyr-Ormeñ leit, af Israels Maña Sveit, Eitred ei aa þañ beit, Øll stillteſt Plaagañ heit.

So stoor Synd eingeñ er, ad meige granda þier, Ef þu aa JEsum sier, Ydrande i Trwñe hier.

Sie eg þig sæll JEsu, so sem aaleingdar nu, Von mijna og veika Trw, vid bid eg hresser þu.

Pa eg sie Saareñ mijn, Særer mig Hiartans Pijn, Saareñ þa sie eg þijn, Sorg øll og Kvijde dvijn.

Laat mig O JEſu kiær! Alldrei so vera þier fiær, ad siaae eg ei Saar þijn skiær, Pa Sorg og Synd mig slær.

Veit mier eg verde og sie, Vin þiñ og Kuñinge,

inae, Po hverʃi Heilʃa og Fie, Hiælp mun þa noog i Tie.

Jeg fel i ſierhvort Siñ, Sæl og Lijkama miñ, J Walld og Vinſkap þiñ, Vernd og Skiool þar eg fiñ, Amen.

# XLVIII. Psalmur.

## Um̃ Christi Sijdu-Sær.

Ton, Twnga mijn af Hiarta hlioode, etc.

†

HED Kvollde Judar fræ eg fære, til Fundar ſen vid Pilatum, og þeſs beiddu ad ecke være, Onduð Lijk æ Kroſſinum: Þvi Hætijdeñ var harla nærre (hier ſo Ritning greiner um̃.)

Strijds-Moñum hañ baud ad brioota, Beineñ þeirra, og ſo var giort, Heliar-Stund þvi breptu ſlioota, hiner Tveir ſem greiner bert, Eñ JEſum lietu ſijns Lijflæts nioota, Limena hañs ei ſeingu ſnert.

Strijds-Mañ eitn med Heiptar Hoote, hardlyndur gieck Kroſſe ad, Lauſnarans Sijdu lagde Spioote, Lagid nam i Hiarta Stad, Blood og Vatn þar fræ eg wtflioote, Fyrr var ædur ſpaud um̃ þad. †

Um̃hugad er einum DRottne, allra ſiña Barna Lijk, i Jordu hier þoott Hollded rotne, Huggun

trauft mig gledur slijk, hañ vill ei tijnest Bein nie brotne, Blessud sie sw Elskañ rijk.

Gud DRotteñ med Giæsku Raade, giørde Adams Sijdu af, frijda Kviñu fyrst a Lade, fast hañ þo a medañ svaf, vaknadur þess ad vijsu gaade, og Veglegt heñe Nafned gaf.

Sofnadur a siñe Sijdu, Saared DRotteñ JEsus var, So af Vatne og Bloode hañs blijdu, bygdest heilog Christneñ þar, naade hun edla Nafne frijdu, nær til Himna stijgeñ var.

Skoda þu hvorneñ Skijrneñ hreina, Skiliast nu med rettu a, ad vijsu jafnañ Vatned Eina, vor Lijkamleg Augu sia, Eñ Trwar Siooneñ, so ma greina, Sonar Guds Blood þar lijtur hia.

Æ! hvad ma eg sælañ saña, St. Thomas Postula þiñ, Pa Sijdu matte hañ Saar þitt kaña, Sijna Hond þar lagde iñ, Pu munt ei mier þiadum baña, Pad ad skoda JEsu miñ.

Allar JEsu Ædar stoodu, opnadar i Kvoleñe, Dreyra Læker dundu og floodu, um DRotteñs Lijf a Krossens Trie, Nægd af Lausnar Gialdde goodu, Guds Son fyrer mig liet i Tie.

Eñ so eg skyllde sia og jata, saña Elsku DRotteñs mijns, Vilde hañ ecke læstar lata Lijfs Ædarnar Hiarta sijns, Pvi er Saal mijn mikel ur Mata, Myskunseme Lausnara þijns.

Opnar Dyr a Arkar Sijdu, Jñ um geingu Skiepnurnar, sem sialfur DRotteñ baud med Blijdu, Biargast skylldu iñe þar, fyrer Vatns

 fins

sins Floode strijdu, Frelse og Lijf þeim giefed var,

Lijffins Dyr a Sijdu siñe, setur JEsus opnar hier, so aangrud Saala Adstod siñe, oll þa Mañleg Hiaalpeñ þver, hvor sem hefur þar Athvarf iñe, fraa eilijfum Dauda leystur er.

Noe um siñ Arkar Glugga, upp til Himens liteb fieck, hallbeñ dimum Hrygdar Skugga, haatt þa Vatnsins Flooded gieck, so hañ mætte um sijder hugga, Soolar Liooma Byrtañ þeck.

Giegnum JEsu helgast Hiarta, i Himeneñ upp eg lijta maa, Guds mijns Astar Byrtu biarta, bæde fæ eg ad reina og siaa, Hrygdar Myrkred Sorgar svarta, Saalu miñe hverfur þa.

Guds var maattug millbeñ prwda, Moyses þa Steineñ sloo, Ut til allra Israels Bwda, aagiætt Svala Vatned droo, hreste Pyrsta, Piaada, Lwda, þeim so nija Krapta bioo.

Pa siaalfur Gud a Sonarens Hiarta, sijnum Reide-Sprota slær, um Heimsins Attar alla Parta, wtrañ Svala-Lyndeñ skiær, Saaleñ vid þañ Bruñeñ biarta, Blessun og nija Krapta fær.

Vid þeñañ Bruñeñ Pyrstur dvel eg, þar mun eg nija Krapta faa, J þesse iñ mig Fylsneñ fel eg, sargar eingeñ Sorg mier þa, Sælañ mig fyrer Trwna tel eg, Hun tekur so DRottens Benium a.

Hiartad mitt er HErrañ goode, Hryggelega saurgad miog, Pvo þu þad med þijnu Bloode, Þess af Audmykt beide eg, viñe mier Boot a

Mædu

Mædu og Moode, Myskunseinen Guddoomleg.
Hiartans Jnnstu Ædar mijnar, Elske, Lofe, Prijse þig, En Hiarta-Blood og Beniar þijnar, Blesse, Hreşse, Græde mig, Hiartans þijdar Packer fijnar, Pier sie Giæskan Eilijflig, Amen.

# XLIX. Psalmur.

## Um̃ Christi Greptran.

Med Lijk-Saungs Lag.

†

JOseph af Arimathia, Edalboren̄ Raads-Herra sat, Gydinga Svik vid Son Guds skied, Samþyckt hafde þeim alldrei med.

Han̄ var Lausnarans Læresveirn, Lijfernis froomur, Dygda hreirn, Gydinga hræddest Helptar Raun, hiellt sig ad Christo þo aa Laun.

Pesse um̃ Kvølldid þaangad gieck, þa af Pilato Leyfed fieck, ad mætte JEsum Andadan̄, ofan̄taka og Jarda han̄.

Joseph took strax af Krosse Christ, Keypte þo nijan̄ Lijn-Dwk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, Paangad kostuleg Smyrslen̄ bar.

Joseph Grøf Eina ætte þar, wtkloppud sw i Steine var, J Alldengarde þar allskamt fraa, Eingen̄ fyrr Daudur i hen̄e laa.

Dijrdlega smurdu DRottens Lijk, Dæmen̄ maa on̄ur fin̄a slijk, Byrgdu med Steine bwna

Grof, Burt geingu strax fyrer utañ Tof.

Maria Jacobs Mooder Ein, Magdalena æ somu Grein, Salome eirneñ sat þar hiaa, saau vors HErra Greftran aa. †

J þeirra Selskap Saal mijn blijd, settu þig nidur utla Tijd, Greptrun þijns HErra giæt vel ad, Gagnlaust mun ecke vera þad.

Vid JESU Greftran jeg fæ sied, Joseph og Nicodemum med, aadur þordu þeir ecke Christ, Opeñberlega ad jaata fyrst.

Nu faa þeir næsta nijañ Dug, nooga Diorfung og styrkvañ Hug, Auglioslega so aller siaa, Elsku sem DRottne hofdu aa.

Riwkande Trwar-Horeñ hier, Helgur Ande so vidnærer, Liosmande þar af Liooſed skijn, Lijfgar hañ allt med Krapte sijn.

Huggest þeir nu sem Hiartad deygt, hafa og Trwar Megned veikt, Bidie uñ Styrk og stodugt Gied, Stunde og lære Guds Ord med.

Veittu JEsu ad veik Trw mijn, Vaxe Daglega og Elskañ þijn, Efleſt so med mier Jñvortes, Ytra good siaaest Merke þess.

Añad þu lijka merkia maatt: mislijkar DRottne aa aungvañ Haatt, Po Heidarleg sie hier aa Jord, Hollde Utvalldra Lijk-For giord.

Mætast Guds Anda Mustere, Mañs var Riett-Christeñs Lijkame, Pvi maa honum veitast Virding riett, Vel med Stilling og Hoofe sett.

Erfis-Dryckur og Onijtt Prial, ecke aa skylldt vid

vid þetta Maal, Heidingia Skickun Heimskuleg, hæfer Christnum aa aungvañ Veg.

Aftijd þa sier þu Saalad Holld, sett vera nidur i Jardar Mölld, Hryggur þu vert, og hyxa bradt, hier vid þu lijka skilia att.

Lagt þegar nidur Lijked sier, laattu sem Dauden hvijlst ad þier, Laangt maa skie ecke lijde um̃ þad, legg eg þig eins i slijkañ Stad.

Goode JEsu fyrer Greftran þijn, gief þu sijdasta Utför mijn, verde farsæl og Fridsom mier, Frelsud Saal naae Dijrd hiaa þier.

J Pridia Maata Huggun hrein, hier veitest mier aa alla Grein, Guds Sonar Holld þvi greftrad var, Greftrun miñe til Virdingar.

Helgum Guds Bornum, HErrañs Holld, Helgade bæde Jord og Molld, Grofiñ þvi er vort Svefn-Hws sett, so maa ei granda Neideñ hætt.

So ad lifa eg sofne hægt, So ad deyia ad Kvol sie bægt, So ad Greftrast sem Guds Born hier, Gief þu sætaste JEsu mier! Amen.

# L. Psalmur.

## Uñ Vardhallds Meñena.

Tón, Eins og sitt Barn, Fader Astgiarn, etc.

†

Hulldungar Juda añars Dags, Jñ til Pilatum geingu strax, Segdu: Herra, vier höfum mest, J Huga fest, hvad sa Falsare herma lietst.

Epter Priaa Daga Ott fyrer Sañ, Uppriiſa
mun eg, ſagde hañ: Wid ſlijku er beſt ad leita Lags,
laat geyma ſtrax, þeſſa Grof iñ til Pridia Dags.

Maaſkie Lijked med Leyndum hlioott, Læreſv. i-
nar hañs take uñ Noott, og Lydnum ſegi þad Ly-
ga-Skyn, þa lijtſt ei Kyn, þo verde ſw Villañ ver-
re eñ hin.

Pilatus viiſt heim Vardhalld fieck, Vakteñ
ſtrax wt af Stadnum gieck, Grofiñe bliſu HErr-
añs hlaa, og ſo til ſiaa, ſettu Jñſigle Steineñ aa. †

Gydinga hord var Heipreñ heiſk, Hiartans
Blindleike og Villañ treiſk, Peim kuñe ei nægiaſt
Kvol og Bañ, ſem Chriſtur fañ, lijka Daudañ
þeir laſta hañ.

Fordaſtu ſoddañ Fijſlſku Grein, Framlidens
Mañs ad laſta Bein: Saa Daude hefur ſiñ
Doom med ſier, hvor hellſt hañ er, Sem beſt haf
Gaat aa ſiaalfum þier.

Gydingar villdu veita Rijrd, Vors Lauſnara
Uppriſu Dijrd, Eñ DRotteñs Valld og Vijs-
dooms Raad, þeſs vel fieck gaad, Verk ſitt fram-
kvæmde viiſt med Daad.

Hefde ei Vakteñ geymt og giætt, Grafareñar
ſem nu var rædt, Ordſok var meire ad efaſt þa,
hvort upp ried ſtaa, DRotteñ vor JEſus Daud-
um fraa.

Eñ þeir ſiaalfer, og er þad vijſt, Uppriſu DRott-
eñs hafa lijſt, Po Kieñemeñ Juda af kalldre
Stygd, Kvalder af Blygd, keyptu þaa til ad bera
Lygd. Oll

Oll Svikrad Mañа og Atvik ill, Onijter DRotteñ þa hañ vill, hañs Rad uñ Eilijfd stodugt stãr, og Stioorneñ klar, Slægdeñ Dramblæta sliett forgãr.

Hvijle eg nu sijdast Huga miñ, HErra JEsu vid Legstad þiñ, Nær sem eg giære ad Greftran þijn, Gledst Sãla mijn, Skielfing og Otte Daudans dvijn.

Sekter mijnar og Synder barst, siãlfur þegar þu Pijndur varst, uppã þad Doostu DRotteñ kiær, so kvittudust þær, Hiartad þvi nyañ Fognud fær.

Nu Groofst þær nidur i Grof med þier, gafst þitt Riettlæte aptur mier, J Hafsins Diwp sem fyrerspãd finst, þeim fleigder inst, uñ Eilijfd verdur ei ã þær minst.

So er nu Syndeñ Jñsiglud, Ydrande Sãla kvitt vid Gud, Eilijft Riettlæte uppbyriad, J añañ Stad, Trwud Mañeskia þiggur þad.

Daude þiñ JEsu deyde hier, Dãrlega Holldsins Gyrnd i mier, Grofiñ þijn hylie Glæpe miin, fyrer Guds Augsijn, Efle mier Styrk Upprisañ þijn.

Stein-Proo mijns Hiarta wthoggveñ siest, Heilagur Ande vañ þad best, Lijndwk Trwar eg læt i Tie, miñ Lausnare, Jlmande Smyrsl Ydraneñ sie.

So fiñ eg hæga Hvijld i þier, Hvijl þu JEsu i Brioste mier, Jñsigle Heilagur Ande nu, med

Aſt og Trw, Hiartad mitt, So þar hvijleſt þu'
Diird, Vallð, Virding, og Vegſemd hærſt,
Vitſka, Makt, Speke og Loſgiord ſtærſt, Sie
þier O! JESU HErra hær, og Heidur
klaar, Amen, Amen um̃ eilijf Aar,
A M E N.

* * * * * *
* * *

## Til Leſarans.

MErk þad, ad i þeſſare Paſſiu-Pſalm-
aña Edition, er Texteñ fra Utlegging-
uñe ſoleides adgreindur, Ad þar ſem Text-
us byrjaſt, ſtendur þetta Merke †. Og
þar ſem hañ endaſt, þetta †.



Regiſtur.

# Registur yfer þessa Passiu-Psalma.

* * *
** ** **

# XLVI. Davids Psalmur/
Ur Latinu epter Buchanano Utlagdur
og i Liood-Mæle uppsettur,
Af Saal. Herra

# Steine Jons-
# SYNE/

Biskupe Hoola Stiftis,
under þessum Notum.

Heim.



Heimsins Þiood i øllum Attum, fraa



Uppgaang Soolar fram ad Naattum,



Eja! Lofed HErran haatt.

Eja, Sijnged sætum DRoottne, so hans Makt og Nafn ei þrotne, Hefied þad i Himenen.

Seiged: Helgur Heims Raadande, hvørsu miøg er Forundrande, Vegsemd Dijrdar Verka þijn.

Hvad stoor er þin styrkve Maattur, steipest Fiandmana Samdraattur, Fyrer Valld þitt Volduga.

O! Þu Fader allra hædste, O! Þu Dijrdar Kongur stædste, Heidre Nafn þitt Himen og Jord.

Hiartad vort þier Heidur sijnge, Af Hug og Munne Lofgiørd klijnge, Hlijd aa þesse Hlioodfære.

Eja, Komed athugande, øll Verk DRottens forundrande, Giæted ad þeim einka vel.

Ydar

Ydar Fodurs Forsioon mestu, Furdu-Verk og Raaden bestu, Packed aller Pioonar hans.

Ogna Haf han uppþurkade, Eingen vard hans Foolke Skade, Botn þess vard ad berre Jørd.

Þurrum Footum þad i giegnum, Pioodeñ gieck, ad Ovin slegnum, Siooren stood vid Sijdu þeim.

Er hans Stioorn um Eilijfd Aara, Augna DRottens Siooneñ klaara, Allar Piooder lijtur lioost.

Ecke lijdur Alls-Raadande, ad med Þvertwd moote stande, Drambsamer hans Dijrdar Makt.

Heidred DRotten Heimsins Lijder, Heidred DRotten allar Tijder, Honum Einum Æran ber.

Eirn fraa Dauda oss han leyste, Eirn gaf vorum Footum Hreiste, Eirn oss øllum Lijfed liær.

Eins sem Silfur oss þu reynder, O vor Gud! þa Mysfun leynder, Net Ovina egnder oss.

Þwnga uppaa oss þu fellder, Of-Sookn Fiandmañaña sellder, setter oss til Høfuds Her.

J Vatn og Elld, Vor Hiartans HErra, høfum geinged, Ei liest þverra, Endurnæring oss fyrer þad.

J þitt Hws med Audmijkt alla, Eg þvi kiem: Þig bid og kalla, Laat mitt Offur þocknast þier.

Hvad eg þier i Hørmung miñe, Heita giørde øllu Siñe, Eg vil feigeñ efna þad.

Eg vil foorna Fienn hreina, Fyrer Naut og Saude

Sa ude eina, Lofgiord Muñs eg læt i Tie.

Komed hjngad hauttlosande, HErrans Piood-er Gud Elskande, Pier sem Otteſt Einañ hañ.

Pa til hañs eg hroopa næde, hañ ad mijnum Bœnum gaade, Lof hañs vare um̃ Eilijf Aar.

Ef eg hefde Illt i Siñe, Ei munder þu giegna miñe, Bœnar-Rauſt, O goode Gud!

Eñ þu heyrer HErrañ blijde, Hrooped mitt i Sorg og Strijde, Nædar-rijkt þitt Eyra er.

O! þeim Fodur allra beſta, Eg ſkal færa Lof-giord meſta, Bœner mijnar heyrde hañ.

Og mig liet i Anaud miñe, Ei Hiælparlausañ nockru Siñe, Honum eilijf Æra ſie, Amen.



## Ydrunar Pſalmur Ur Þyſku Snweñ a Islendſku.

Ton, Natturañ øll og Edle Mañs, etc.

DU Gud jeg ſkrijd fyrer Augſijn þier, Med Angur ſarum Trega, O Gud þijn Myskun Eilijf er, Eg medgeing Hiartanlega, Alla þa Synd, Og Broteñ blynd, fra Barndoms Æſku miñe, ſem giort heſe eg, og mørg eru miøg, Meinſanga Hiarta og Siñe.

Synder þær ſem mig hafa hendt, Hvar Mañs ei kañ telia: Þo ſæ eg DRotteñ þeim ei leynt, Þvi mig þær ævallt kvelia, Þiñ Kiære Son, fra Synda-Sman, med ſijnum Deyd mig leyſte,

Eg gaf Hoggstad, samt epter þad, a nijtt mijn Satan Freyste.

Mitt Oþackleted eirneñ er, allt hijngad til hid stædsta, Jeg hefe alldrei þackad þier, af Pele Hiartans næsta, Altar-Trygd þijn, sem æ nij skijn, nie Elsku og Giæsku þijna, sem ad vid mig, So Rijkuglig, Samvitsku slær nu mijna.

Miked Polgiæde og Myskun þijn, margt Aar mig lided hefur, og ressad ecke Afbrot mijn, sem opt þa Synden̄ krefur, Æ fyr og nær, O! Hyrder kiær, um̄ mig i Briooste kiender, Þijn Elska og Naad, Oll brwkar Naad, ad mier til þijn eg vende.

Orded þitt Heilagt hefur þrætt, a Hiartans Dyr klappad mijnar, Ande þin̄ jafnañ hroopad hætt, Himna Dyr mier ad sijna, þijn Elskañ blijd, hefur Aar og sijd, Ydrunar giort mig beida, med Krosse, Symd, Præ, Praut stoorre og smaa, til þijn mig viliad leida.

Eñ samt jeg giet ei þrætt fyrer þad, þo þu rieder mig kalla, Eg hef þvi giefed aungvañ Stad, og Eyrun̄ þad heyrdu valla, fyrer Prioottsku Gied, Prælynde med, vid þier eg Hnackañ reige, Po hefur þijn Naad, og þolgood Daad, Þyrmt mier eñ glatad eige.

Pu kyñer opt, og þad er Von, þo af mier Lijfe svipter, og mier sem Einum orgum Pioon, allt i Helvijte steypter, Par aan Aflaats, Ofeileñ traass, J Saur mig velkte Lasta, samt gaf mier To-

om, Þijn Giæskañ froom, Giorder ei Ressing hasta.

Nær Hiartad þar, um̃ þeinker mitt, þad mætte i sundur sprijnga, og fyrer Uggleysed Angur strijdt, i Merg og Bein sier þreingia, Eingeñ er til, su eilijf Kvol, ad eg ei forþient hafe, Overdur er, ad Jordeñ mier, Upphallde, og Næring giefe.

Overdur viist eg Aumur er, ad þijn Skiepna heita meige, Eñ verdur ad Heims allur Her, under Ressing mig drage, slijk Yfer-Raad, hefur Syndeñ naad, Soddañ mæ eg medkieña, Reikner þu oll, mijn Afbrot ill, um̃ Eilijfd hlijt eg ad breña.

O Fader! Milldeñ Eilijfleg, ad Footum skrijd eg þijnum, Hrek ei burt þañ sem hroopar a þig, i Hiartans Angre sijnu, Augunum snw, i Myskunnu, ad mier, Synd-þiadum Mañe, Lijt vid med Nææd, Lijfgar mig þad, Linar strax Angist miñe.

Astar-Hiartad mier opna þitt, þañ ElskuBruñeñ sæta, Gleym miñe Synd, Græd Angur mitt, Gief mier Lijf mitt ad bæta, Med ollu þvi, þier er

Pocknan i, þar med hiaa Vondu sneide, uns

Jeg heim fer, med Eingla Her, J Himna

Dyrd og Glede, A M E N.



